# Fim̃tiu Sálmar

nefndir

# Píslar Minníng,

út af

## Pínu og Dauda

## Drottins vors

## Jesú Krísti.

Ortir af

Vigfúsa Schéving.

Minnist á þann, er mótmæli gégn sér af syndurunum þoldi, svo þér ecki þreytist edur uppgéfist í ydar hugskotum. Ebr. 12, 3.

Videyar Klaustri, 1824.
Prentadir af Fakt. og Bókþryck. Schagfjord, á kostnad Skáldsins.

Þeim allsvaldanda

Himins og Jardar Konúngi,

# Gudi Fødur, Syni

og

# heilogum Anda,

eru eptirfylgjandi

## Saungvísur

helgadar.

## Allramildasti
## Gud og Fadir!

Þad má nefna einn óþacklátann akur, sem ár eptir ár ágjætlega ræktadur, géfur ecki af sér þann ávoxt, sem sá eptirvænti, er svo vel um hann hyrdir.

Svoddann einn akur má eg mig nú, minn Gud! med hjartans blygdun harmþrúngiñ játa, og vil med audmjúkri fyrirgéfníngar bón medkéña: ad eg hefi — því midur — helzt of-lengt undandregid ad svara þér svo þægilegum ávexti, sem þú ydugleaa, en opt forgéfins, hjá mér leitad hefir og áskilid, sem rétt bodna rentu af þínum nádargáf-

um, þinni fødurlegu forsjá og umhygg-
ju, sem þú hefir án afláts fyrir mér
hafda, hvar fyrir þitt háleita nafn sé hátt
lofad eilíflega!

Nú þá eg vard lokfins fyrir soddan
þína óþreytta nádar umhyggju, svo sem
af svefni uppvakinn, til ad yfirvega mitt
staklega óþacklæti vid svo líknarfullann
og þolinmódann Gud, sem þú ert, á-
samt ad lokfins mundi sá tími koma,
á hverjum reikníngsskaptr mundi af mér
heimtur verda, ecki sídur enn af þeim
ótrúa Rádsmanni yfir síns Herra gétzi,
svo framt eg, á nú yfirstandandi nádar-
tíma, léti mér ecki hans víti ad varn-
adi verda, þá tók eg, minn Gud! í
trausti þinnar nádar, mér fyrir hendur,
ad samansetja hjer eptirfylgjandi Sálm-
vers, jafnvel þó eg þeckti mig til sodd-
an ydju ærid fákunnandi.

En svo sem eg hafdi þad bædi heyrt
og sjed, einninn sjálfur reynt, ad þinn

miskunar kraptur er í veikum máttugur, svo gafst mér þad sama sérdeilis nágvæmlega ad reyna, vid uppbyrjun, framhald og endalykt þeirrar ydju, er þín mildi hafdi mér á hendur falid, hvers vegna eg enn á ný, svo vel med hönd og penna, sem hjarta og munni, hrósa þínu háleita nafni, þú, hinn hærsti allra gódra hluta Gjáfari!

Soddan þín margprófud miskunsemi, dirfir mig nú, Drottinn minn! ad varpa mér, med þessum fáu blødum, ad þínum miskunar fótum, þig, í djúpustu hjartans audmýkt, bidjandi:, ad þú vildir nú leggja þad til allra þiña, mér allt híngad til veittu velgjørnínga, ad álíta bædi mig og þau í þinni nád og miskunsemi, og þau svo sem einn lítinn Frumgróda af mínu hjarta, hendi og munni þér audmjúklegast frambodinn, nádarsamlega medtaka.

Asamt

Ásamt eptir því, ad hverki er sá nockud, sem plantar, né heldur hinn, sem vökvar, heldur þú, minn Gud! sem ávortinn gefur, svo er þad mín innileg hjartans ósk og beidni: ad þú vyrdist ad láta þetta nú loksins, fyrir þína adstod, fullkomnad verk, þéna fyrst og fremst þínu hálelta nafni til ódaudlegrar æru og vegsemdar, en þínum börnum til sameginlegrar sálar og lífs velferdar, hverrar þeim, ásamt sér sjálfum, af hjarta óskar

Þíns guddómlega
maktar-veldis

voladur Undirsáti
Vigfús Schéving.



# Til Lesarans.

Ecki er ráð, nema í tíma sé tekið, hljóðar máltækið; þó er það sumra manna ecki sæmandi venja, að þau Rit, bæði í lausum og bundnum stýl, sem þeir þó hafa, með miklu erfiði, samantekið, draga þeir ecki að síður dag frá degi, að láta undan þeirra hendi Almenníngi fyrir augu koma, hvar af tíðum orsakast, að svoddan þeirra verk — sem þó annars hefðu kunnað, í tækann tíma á lopt haldin, þéna svo mørgum til nógra nytsemda — líða að fullu og øllu undir lok, með sjálfra Rithøfundanna dauðlegum afgángi, þar þau þá lenda, optar enn skyldi;

þeirra höndum, sem eru af svo villtum þenkíngar-hætti, ad vilja halda þeim fyrir siálfa sig, án þess adrir útífrá skuli af þeim sömu nockur not hafa; já! — eyda þeim fyrr med ýmsir móti, enn þad skuli nockurntíma uppgötvast, ad þeir hafi vilјad, af svo ásettu rádi, stínga þeim undir stól.

Eg held því rádid hollara fyrir þá, sem hafa í áformi ad láta þad eptir sig liggja, er þéna mætti Gudi til lofs og dýrdar, en ödrum til uppfrædíngar, ad þeir, fyrir þeirra burtför af heiminum, hafi sér svo í haginn búid, ad svoddan þeirra verk hafi nád, edur ad minnsta kosti byrjad ad ná því máli, til hvers þad var í fyrstu af þeim áqvardad.

Nú svo sem eg er ecki viss um, hvert mér audnast muni ad aflifa til morguns, auk heldur lengur — þar eckert festu-bréf fengid hefi fyrir lengd minna eptirkomandi lífstunda — svo tek eg mér nú fyrir hend-

ur, í nafni Drottins, ad láta hér eptir-fylgjandi Píslar-Minníng, edur út af Pínu og Dauda vors Herra Jesú Kristi, einføld Ljódmæli, Samløndum mínum fyrir sjónir koma.

En þó eg telji mig ecki med lærdum edur hátt-upplýstum mønnum, hverjum tiltrúad er ad uppbyggja Guds kristni med þeim Frædibókum, sem vísa henni til eilífrar velferdar, fann eg þó skyldu mína, ad leggja einn litinn stein í svo stóra bygg-íngu, hverrar hyrníngar-steinn ad sjálfur Jesús er, sem engu sídur álelt þann eina smápeníng, er sú fátæka eckja lagdi fordum í Guds-kistuna, enn þad meira, sem hinir ríku løgdu þar inn, af þeirra miklu audæfum.

Géfst svo øllum, sem þessi Ljódmæli kynnu hér eptir í høndum hafa, ánægjan-leg orsøk og efni til, ad sjá minn velmeint-ann og einfaldann tilgáng, til samanteckt-ar og útgáfu þeirra sømu, án þess þeir géti, med gódum eptirþánka, fallid uppá

svo fráleita ímbyrlíng, ad eg vid svo verduga tilraun, hafi nockurntíma í áformi hátt ad jafnast vid, aukheldur umbæta þad, sem af einum ødrum er fyrir laungu sídan um sama efni útgéfid, hvar med eg vil sérílagi meint hafa þañ hrósverda og andríka Sálma-flock *Hallgrims* Prests *Peturssonar.* Nú þókt sá Guds madur nædi því góda hlutskipti, ad setjast svo ofarlega vid Drottins miskunar hábord, vissa eg samt vel, ad sá hann þar setti, mundi hvørki mér ne ødrum fyrirmuna ad nálægjast bordid, í þeirri von, ad mega þar vid mettast líka svo af þeim leifum, er afgángs urdu, jafnvel þó ecki því algjørlega neiti, ad í þessum Sálmum megi þær málsgreinir fyrirhitta, sem mørgum þyki ad meiníngunni sambjóda þeirra gømlu Passíu Sálma innihaldi; en hvar helzt sodd-an kynni í þessum nýu Sálmum Lesarenum fyrir sjónir koma, mun þad allvídast útfært med ødrum adlútandi kríngumstædum, og heitir þad þá svo: ad aldrei er góð vísa of opt qvedin.

En jafnvel þó hér og hvar í þessum Sálmum kunni eitt ødru ad meiníngunni áþeckt fyrikoma, eptir sem efnid til Textans heimfært sýndist ad útheimta, þá vil eg þar um segja: ad hverr, sem kynni ad vísa mér nockra eldri edur ýngri Sálmaflokka, fyrir utan, í þeim sømu, optar enn einusinni framfærda mjøg líka, edur jafnvel sømu meiníngu, mundi mér þad eins fyrirkoma og þad, sem eg hefi ádur hvørki heyrt né sjed.

En — ad eg tók fyrir mig þau sømu Løg, sem fyrrnefndur Guds madur fyrir sínum Sálmum brúkad hafdi, var sú orsøkin: ad, fyrir utan þad, Eg hefi álitid hann medal þessa Lands annara nafnfrægu Skálda, hvad athugasamastan einnig í því, ad útvelja þau løg, er samsvara kynnu hans ágætu Sálma innihaldi, þá hugda eg þar med ad gjøra Lesaranum enn meiri þénustu, þar mér vyrdtist honum mundi, med svo móti, því audveldara ad hitta, í snøggu bragdi,

uppá sérhvers Sálms efni og innihald, sem honum væru þeir algengu Passíu-Sálmar ljósari, þókti mér þá vel tilfallið, að benda til Sálmanna innihalds með upphafs ordum hinna eldri Sálma.

Annars eru Sálmarnir svo innréttadir: ad í því fá-orda Textans innihaldi, svo vel sem útleggíngunni, talar Syndarinn vid sinn Endurlausnara, eins og hann væri þá persónulega nálægur vid hans pínu og dauda, og sæi med opnum augum allt hvad hann mátti líða, sem eptir lærdra manna sannsýnu áliti, var vid svo einfaldra Sálma smeck eginlega passandi, enn þótt sú adferd hafi ecki brúkud verid frá upphafi til enda, í hér fyrrum útgéfnum Sálma-flockum.

Jeg hefi og þess í millum tekid mér þau friheit, ad útvídka med fám ordum Textans samhengi, svo sem það er i Pas-

sín Sálmunum, til dæmis: þeim 23ja og 34da, mjög prýdilega gjört.

En — svo sem þeir gömlu Passíu Sálmar eru þar til sérdeilisleiga þénandi, ad uppvekja einn í sínu andvaraleysi sofandi syndara, svo eru og þessir einkanlega þar til gjördir, ad sá, fyrir sínna afbrota þeckíngu, ångrädi syndari, fái sínu sorgmædda hjarta svölunar leitad, og þá sömu fundid í síns Endurlausnara fridandi forþénustu, og svoddan Guds vesælíngum eru þessi mín einföldu og vidhafnarlitlu Vers til einlægrar þénustu frambodin.

En sökum þess: ad fáir eru smídir í fyrsta sinni; einkum þegar svo mikilvægt efni er af einum, vid Sálmasmídi fákjænum, vidvaníngi valid, hins og annars, ad nú á dögum eru lærdir menn og fyrirtaks Skáld miklu vandlátari ad

gvedskap, eñ í fornøldinni, þá dylst eg ecki vid, ad þeir muni finna misfellur nockrar í þessum Sálmum mínum, sem æ vilja loda vid fleſtøll mannleg verk; en eg vona samt, ad þeir gódu menn muni sjá ígégnum fíngur vid ófimleika miñ í skáldskapnum og dæma um hann med vægd. Almúginn — hverjum Sálmarnir eginlega eru ætladir — óska eg ad njóti af þeirra heyrn og lestri, allra sannra sálar heilla, þá þykist ecki til ónýtis unnid hafa

Hellum í Mýrdal,
þann 6ta Jan. 1817.

allra Jesú Kristś Elskenda

einlægur Vinur

V. Schéving.

## 1. Sálmur.

Lagid: Upp, upp, min sál! og allt mitt ged.

Jesú nafni upplist þú, aúgum gaumgæfnis, sál min! nú, á medan Drottins umsjá blíd, enn sparar þig á nádar-tíd.

2. Gjenti þér hana ljúfur Gud, laungum þó værí forsómud, gleymist hún því þad eptir er, illa mun sídan gegna þér.

3. Af því ymdi, sem ádur var, úthlutad þér til medferdar, athuga vel ad eitthvert sinn, áttú ad standa reikníngiñ.

4. Ótrúa þjónsins viti verst, varast skyldir því allra mest; trúlyndra þjóna tem þér sid, til þess má Drottiñ veita lid.

5. Kom því, minn Jesú! nú med nád, nú veit mér, Jesú! krapt og dád, áform mitt bædi' og ydjan hjer, einum svo mætti líka þér!

6. Áformid besta eg þad fiñ, í þinu trausti, Jesú minn! vildi' eg nú fá ad

þenkja' um þig, þúnglega hrjádann fyrir mig.

7. Þenktirdu, Jesú! mjeg til mín, medan þig qvaldi hrigd og pín; ydja mín sé þá einninn best, um þína qvøl ad hugsa mest.

8. Mér til huggunar hef eg þad, helgasta verk nú áformad, ósk mín ad lyktum ein þó sé, yrdu þess fleiri njótande.

9. Adstodi, Jesú! anda minn, andi vísdóms og kraptur þinn, hjer fyrir sál og hjartad mitt, heidrad svo fái nafnid þitt.

10. Med Lærisveinum loffsaungina, lyktad þá hafdir, Jesú minn! út yfir Kedron eg þig sje, til Olíu-fjallsins gángande.

11. Ellefu sveinar sorgbitner, á soddan reisu fylgdu þér; hér út af leidt' eg lærdóm þañ, líf mitt og sál'er gledja kañ.

12. Í Davids ljódum lastu þiñ, lofsaungiñ goda, Jesú miñ! birja svo vildir beiska pín, brotin allfús ad qvitta mín.

13. Ef þini speki þad svo litst, þjáníngar skul'eg reyna víst, þér bæri lof og þackir tjá, þá mig svo leggur hirtíng á.

14. Þó verd'eg sorga-vøtnin hjer, vada, minn Jesú! eptir þér, upphefd er víss og æra mín, ad mig svo leidir gædska þín.

15. Olíufjallsins fórstu til, fagnandi þad eg merkja vil, oleum nádar útrann þar, alsærdum mér til íækningar.

16. Olíu-vidur einninn sjest, álitinn fridar-teiknid best; eilífann frid mér fánstu þá, frekt þig nú blódust rannir á.

17. Lærisveiñ þiñ þá ordiñ er, eptirfylgjandi jafnan þér, þar sem Meistari minn ert nú, mér hefir stadiñ ætlad þú.

18. Fyrirsagdirdu sveinum þín, sára lídandi hugar pín: ad mundu hneixlast á þér skjótt, ádur eñ lidi sama nótt.

19. Advarar þú mig eiñiñ best, advaran sú þó forgleymest, gódvilja hreinann gefur þinn, gløggt þó ad reyna, Jesú minn!

20. Ætti' eg því dádst ad elsku þín, ad verdu svoddan rækt til mín; vángætinn þó eg vissi mig, vægi mér nád þín guddómlig!

21. Lærisveinum í ljósi nú, létstu ritningar ordin trú: Hyrdiriñ þegar þjádist hjer, þá mundu tvístrast saudirner.

22. Eg er, minn Jesú! saudur sá, sem þér optlega villist frá, hirdir miñ þó eg heyri nú, hjer fyrir mig ad píndist þú.

23. Sér má ej bjarga saudur þinn, sæk hann því aptur, Jesú minn! vík mér svo dygda veginn á, víkja svo næd' eg löstum frá.

24. Ef ad þin náqvæm hirdirs hönd, hjúkrar svo bædi lifi' og önd, því má eg jafnan hrósa hjer, hrekur mig enginn burt frá þér.

25. Fyrirspád, Jesú! forlög þín, fylgjurum voktu harma-pín, gledja svo vildir þar med þá, þína upprisu'ad miñast á.

26. Særir og grædir sjálfur þú, sára-bót viss er nád þin trú, særdann mig þá hún sviptir pín, sárs-auki hjartans allur dvín.

27. Frekt þar nú treysti sjálfum sér, svoleidis Pétur mælti hjer: ei skyldi hneixlast á þér hann, allir þó fjell'i vanda þann.

28. J dag — svo mæltir aptur þú — ádur tvígélur haniñ nú, afnejta mundi' hann þrisvar þér, þrættu med honum sveinarner.

29. Lof=

29. Lofordin mín þá færst eg finn, fæ eg þó haldid, Jesú minn! afbrotin helzt þau ángra mig, aptur á ný, sem módga þig.

30. Fyrirheit svo ad fyllist þín, fyrirgéf, Jesú! brotin mín, géfdu eg sídan haldi hjer, heit mín til lofs og æru þér!

## 2. Sálmur.

Lagid: Jesús. géck inn í grasgard þann.

Ef fyrivita fengju hjer, fleirstir þá neyd ad høndum ber, Lausnarinn gódi! litst mér nú, léttir ei mædu fregnin sú; fyrir því skal ei furda mig, fyrisjed pínan hrelldi þig.

2. J Gethsemane grasgard inn, gánga litt eg þig, Jesú minn! Fødursins svo ad finna þar, fengirdu víst til hegníngar, sem fyrir heiminn þola þú, þolinmódlega vildir nú.

3. Adam sig fordum fela réd, frekt þegar hafdi misbroted; í aldíngardi aptur nú, opinberlega mæddist þú, Frelsari minn! og fórnin vís, fyrirheitin í Paradís.

4. Frómlyndir gengu' í før med þér, fyrrtøldu Lærisveinarner, af hverjum

þó í þetta sinn, þér til hugfróa, Jesú minn! Jakob, Pétur og Jóhann með, jeg finn þú hafir útvaled.

5. Forklárun þína fjalli á, fengu þessir að horfa' uppá, eins þegar pínan ákostlig, audsjáanlega mæddi þig; eins vel í ró og eymdum mín, eg vil, minn Jesú! ajæta þín.

6. Tárin þín dundu tídt á fold, titradi þitt hid skjæra hold, mæddur ad vonum mæltir þú: mín sál í daudañ hrigg er nú. Fram lengra gécksțu, Gud miñ! þá, grátandi féllst svo jordu á.

7. O! ad svo gætí' eg grátid hjer, glæpi mína, sem verdugt er! o! ad titradi' eg aum mannkind, af ótt'ad fremja nockra synd! o! ad mín sála syrgdi nú, sálar ángist ad reyndir þú!

8. Náttúru blindnin bleckir mig, blessadann mjeg svo hrelldi þig, ad þó þú grétir, Gud miñ! hjer, græt eg ei mínar illgjørder; opni því, Jesú! augu mín, ángistar böl og hrigdin þín.

9. Opnadu hjarta eiñiñ mitt, ávalt svo prísi'eg nafnid þitt, ad med þjáníngu þiñi hjer, þá náð audsÿnda fécksțu mér, ad sárum qvída, sút og pín, svipta mig, Jesú! tárin þín.

10. Affsidis géckstú, elskan blíd! á medan gjørdist bænin fríd. Veraldar glaumi' ad víkja frá, veiti mér svo þín gædskan há, bæn mína helzt þá birja vil, blessunar efni þad eg skil.

11. Flatur á jørdu þrisvar þú, þessa bæn gjørdir sýðla nú: Abba, miñ Fadir! þóckniſt þér, þeñañ tak kaleik burt frá mér; verdi þó samt ei vilji minn, vilji framgvæmist heldur þinn.

12. Fell eg nú þínum fótum ad, Frelsariñ gódi! leyf mér þad, óverdugleikiñ meinar mér, margt fyrir vondt, sem gjørd'eg hjer, ad augum líta þrællñ þiñ, þorir nú varla' í himiniñ.

13. Audvyrdilegur eg þó sé, ormur skrídandi á jørduñe, flatur á jørdu, Jesú miñ! jeg veit ad lástu harmþrúnginn, í þér svo gledja mætti mig, medan eg feta rauna stig.

14. Hafirdu saklaus, Herra minn! himneskum Fodur vilja þiñ, hógvær í anda helgad nú, harmqvæli medan reyndir þú, sjálfbodin skylda mun þá mér, mætt'eg í svoddan líkjast þér.

15. Legg eg því bædi líf og ønd, lifanda Guds í nádar-hond, hann leggur aldrej meir'á mig, enn mildi' hans þeck-

ir guddómlig, ad undir rísid eg mun fá, af því trúfastur heitir sá.

16. Fyrst nú ei vildi Fadir þinn, Frelsarinn gódi! þetta sinn, eyru miskunar opna sín, af þér svo léttri hardri pín, í þínu nafni heyrir hann, hvers eg í naudum bidja vann.

17. Í þessu nafni um eg bid, einskjæru nádar fullting id, bevorud svo í brjósti mín, beist verdi, Jesú! qvolin þín, sem í grasgardi þoldir þú; þinn veri lofud mildin sú!

## 3. Sálmur.

Lagid: Enn vil eg, sál mín! uppá nÿ.

Gjörvalltra meina grædarinn, grædiskurtkasti Jesú minn! innvortis sára eymd og pín, útstódsfru fyrir brotin mín, ad mig svo leystir eymdum frá; enn vil eg skoda miskun þá.

2. Af þinni skéynu, þad eg sie, þú mátt ir reyna fullting; helgur Engill af himna-rann, hjer þig í naudum styrkja vann. Andana, sem nú þjóna þér, þjóna lát, Jesú! einninn mér.

3. Fodurnum hlÿdinn fyrst ad þú, Fodursins vilja gjördir nú, huggunar dád

eg holla finn, horfandi á þig, Jesú miñ! þá bardist dauda beiskann vid, hjóstú mér annunn hjálpræðid.

4. Svo þegar dauðiñ dregst mér ad, þitt daudastrídid viñur þad, ad eg daudvona doprum mót, daudanum finn þá hugarbót: svo sem þú daudann sigradier, sigur á dauda veitist mér.

5. Heit vard þín, Jesú! bæniu blíd, bágt þegar leidstu harma stríd; í minni bæn — sem medkéñe — mjøg tídum þó eg kaldur sé, allt hvad þá brestur aunnann mig, núbæti nád þín guddómlig.

6. Fullþackad aldrej fæ eg þér, fyrir þá nád, sem veittist mér, blódugur sveiti þýdur þiñ, þegar útflódi, Jesú minn! af ollum þér, til allra mest, útrann svo nádar-lindin best.

7. Í andlits sveita fædu fann, frá-fnúinn Gudi hrelldur mann; féll þér sá einum fædan best, Fodursins vilja ad gjora mest; ad sveittur blódi svoddan þú, sadníng útvega mátttir nú.

8. Má hjer af skilja ad mestu pín, mátti nú bída sálin þín, oll þá Guds reidi á þér var, og allra manna syndirnar, um allann heim, á alla lund, allmjøg drýgdar á hverri stund.

9. Svo haf'ad vísu þjakad þér, þúnglega mínar illgjørder; undrast því, sál mín! ecki par, þó á þig blæðust sorgirnar, dýrstur og líka dreiri þinn, drypt nú af þér, Jesú minn!

10. Blód-pressu þá eg svoddan sie, samfara þinu mótlæte, blódugum tárum bæri mér, brot mín ad vísu gráta hjer, ad þeirra byrdin ógnarlig, ángradi nú og mæddi þig.

11. Enginn frá heimsins upphafi, er sá fundinn á jørdunni, eins mikla reyndi raun og þú, raunmæddur blautst ad þola nú, blóddropum líkur þegar þinn, þýdt féll á jørdu blódsveitinn.

12. Líkt sem jørdin þá ofþurr er, inndreckur vatnid, játa'eg þér, ad hef' inndruckid sérhvert sinn, synd og ránglæti, Jesú minn! blód-sveita døggin blessud þín, bid eg því drjúpi' á sálu mín!

13. Farsæl ad nýu foldin var, sem féllu' á þínir blóddropar, Frelsarinn gódi! fyrir þig, farsælli þó eg prísa mig, hjer þegar blessad blódid þitt, blædir á sál' og hjartad mitt.

14. Blessadur þegar blódsveitinn, best af þér hrund'i grasgardinn, mikillar sædi miskunar, mildur sádirdu, Drottinn!

þar, spratt þar af sonn í sorgum hlíf, synda-qvittan og eilíft líf.

15. Ytstu myrkraña ógnar bad, af mér þó væri forskuldad, einum svo má eg þacka þér, þess fær ei qvölin grandad mér, ángistar bad og eymdin þín, afplónar, Jesú! brotin mín.

16. Guddóm og mañdóm þeck'eg þiñ, af þínu boli, Jesú miñ! mañdómur þiñ vid qvölum qveid, qvalirnar vañstu' og hardañ deyd; Guddómsins fyrir dýrstu dád, dýrdlegum sigri féckstu ráð.

17. Eins mikil sem var ángist þín, útvortis neyd og sálar pín, eins skjærá nád eg fæ og fiñ, fyrir þig tjáda, Jesú miñ! eins trúa hlýdni' og æru þér, ætt' eg ad sýna þar fyrer.

18. Þú, ædsta rádsins Engill minn! ávalt mig styrki kraptur þiñ, breñandi gèfdu bæn min sé, blódsveiti þinn mér hugsvale, daudann þá stríd'eg daprann vid, dýrstann svo veit mér himna frid!

## 4. Sálmur.

Lagid: Postula kjori Kristur þrjá.

Ord þín og verk af ást og trú, ødrum til góda birtir þú, þad létstu' ei

bída þetta sinn, þjádur í anda Jesú minn!

2. Adur er sýnt, ad sveina þrjá, settirdu þér ad bída hjá, baudst þeim og vera vakandi, vid þína qvøl í grasgardi.

3. Breiskleikinn oll, ad ei mest, adgættu þeir nú rádid best, svefnþrúngin augu høfdu hjer, hjer med ei vissu' ad ansa þér.

4. J mínu kalli' og embætti, opt þó mig finnir sofandi, best vægdu, Jesú! breiskum mér, breiskleika minn eg játa þér.

5. Aminntist Pétur einna mest, ad skyld' hann vaka hjá þér best, dádleysi hans svo þecktir þú, þess mætti' hann líka gæta nú.

6. Ofbágann veitstu einninn mig, Elskari minn! ad stunda þig, allt fyrir þig ad orka nú, utan svo veikum hjálpir þú.

7. Sveininum ad vaka' og bidja best, birtirdú líka rádid mest, ad freistni þá ei félli í; framar vil eg nú gæt'ad því.

8. Þú veitst, ad fjandans flærdargiørn, fólskan áreitir mjøg þín børn, sem ljón grenjandi gengur sá, granda vill þeim hann orka má.

9. Svo sem þá hveiti siktad er, sikta vildi hann þína hjer, Postula medur

svikum sin, svo fer hann og ad leita min.

10. Ad vaka og bidja best eg kun, byrja þá ætid, Jesú min! rádlagdir sveinum þetta þú, þad mér rádleggur einnin nú.

11. Ad vaka og bidja ef þurfti þá, þú medan jördu birtist á, á þessum tima þá er vist, þvi bæri mönnum gleyma sist.

12. Ad vaka og bidja vist ef hjer, vid þurftu Lærisveinarner, þá held eg vært þörfin mest, þess vild eg aumur gæta best.

13. Jeg má nú, Drottin! játa þad, jeg hef ei svoddan athugad, ugglevsis svefn þá sækir mig, sist verdur bænin tidkanlig.

14. Vitjadir sveina þrisvar þú, þá svo uppvakta fengir nú; en þeir sofnudu samt þó mest; svoddan mig einninn hendir verst.

15. O! hvad opt hefir ástin þin, ástriki Jesú! vitjad min, viljandi upp mig vekja'i stad, vaknad hef eg ei fyrir þad.

16. Fátt til úrræda fan eg þvi, freistingum medan hraktist i, optlega syfjud vndin min; aumki mig, Jesú! nádin þin.

17. En þó eg hafi, Herra min! hirdandi fátt um vilja þin, andvaraleysi ydkad mest, eins og holdinu þóknadest,

18. Betra nú seint eñ aldrej er, eg frá syndunum vakni hjer, ad ei forgéfins alla tíd, advari mig þín gædskan blíd.

19. Veit mig í naudum veki sú, vakandi mig svo finnir þú, uppvöknud þá og öndin mín, óhindrud fái gæta þín.

20. Sá er í nánd mig svikld fær, svo bíd eg þig nú, Drottiñ kjær! ad Sathan, heim og holdid mitt, heptir ad brúka valdid sitt.

21. Afsjádur svoddann illsku her, er mig þó laungum svæfdi hjer, samt nú ei, Drottinn! svæfir þig, svo þú ei kuñir vekja mig.

22. Ei tak því frá mér Anda þinn, Israels gódi vaktarinn! med ordi þínu og honum hjer, haldtú svo vöku fyri mér.

23. Veittu, miñ Jesú! væran blund, voludum mér á daudastund, yfir mér vaki augu þín, ad mig ei saki daudans pín!

## 5. Sálmur.

Lagid: Medan Jesús þad mæla var.

Ein þegar báran ördug rís, önnur er jafnan haldin vís; rættist, minn Jesú! þad á þér, þegar Júdas med vondsku her, í grasgardiñ kom ad grípa

þig, grasgarðs pínan þá lægði sig, fyrr sem útstóðstu fyrir mig.

2. Af Yfirmeñum útbúiñ, eptir þér sókti flockuriñ. Illir þó samtök hafi hjer, hverskyns ógæfu' að brugga mér, nægir mér best þín náðin trú, nóg hefir líka ráðiñ þú, að mig ei hitti mæðan sú.

3. Þín með logandi lyktum hjer, leitaðu þínir óviner. Ljós þiña orða leysdu sé, ljós miñar trúar nærandé, með ljóst því svo leit' eg þín, lángnættis mæðu, hrigð og pín, svo hjer ei qvíði sálin mín.

4. Júdas géck fyrir grimmum lýð. Græðari miñ! þín verndin blíð; fordi mér svoddan fólsku víst, forngi má eg heita síst, þeirra, sem helzt nú hata þig, hirðandi lítt að betra sig; gánga svo þanniñn glæpa stig.

5. Launaði Júdas þaññ þér, þínar auðsýndu velgjörder, forsugum her að að fylgdi nú, fángiñ svo verða mættir þú. Þér einum á eg þacka best, það gott, sem við mig auglýsest, af mér þó sjaldan athugest.

6. Hjer eptir géf ei gángi eg; glötunar sonar hættann veg, athugasemi alla tíð, auki mér svo þín gæðskan blíð, að Guðs og manna gæðin flest, gjarn-

an þá fær eg reyna mest, í verk og orði vidkannest.

7. Undrar mig síst þó hrd'eg hjer, af mönnum líða vanþacker, fyrst ad þú máttir þola þær, þín fyrir gódverk, Drottinn kjær! í sér med Júdas einhverr sá, er þína gjørdir miskun tjá, út hefir gengid þig ad þjá.

8. Þér var ei hulid þetta sinn, þjáninga bolid, Jesú minn! yfir þig koma er átti nú, alleina sem ad reyndir þú; alvitska má og merkja þín, mótlæti hvert og ángurs pín, er eg skal líða um æfi mín.

9. En fyrst þú, Drottinn! fyrirsjer, fyrirliggjandi mædu hjer, fyrifram líka þeckir þú, þad, sem mig kynni gledja nú, bót er svo jafnan búin fríd, bert þegar nálgast harma-tíd; þad sé mín hjartans huggan blíd.

10. Dvinn spyr þú alla fyrst, er þá minn Jesú nálgadist: ad hverjum leita hirdi nú, heiptar óvæga mergdin sú? Jesúm nadverska nefndi þann; nefndist þú vera sjálfur hann, flockurinn vid þad falla vann.

11. Frambaud sig Jónas, féck hann því, fárlega sjónum hrekjast í; frambaudstu, Jesú! þanninn þig, þín var

svo nádin merkilig, í daudans pínu djúpid hjer, Drottinn! ad létstu varpa þér, frá heljar pitt ad hjálpa mér.

12. Med einu felldir ordi þú, óvini þín'ad velli nú; med einu þá eg ordi hjer, ákalla þig ad hjálpa mér, med einu líknar-ordi þá, orkar þín, Jesú! mildin há, fljótt mig ad reisa fætur á.

13. Þeirra ertadi þad svo vær, þig ad uppletta'í qvölirnar, duldistú eigi, Drottiñ! þá, dreginn svo yrd'eg qvölum frá; sú var nú tíd, ad sára pín, sañlega fyrir brotin mín, útstædu líf og endin þín.

14. Lángar mig þín ad leita hjer, lífs heilsin mín! eg treysti þér, í lífi'og dauda látir mig, líka í naudum fiña þig; unn mér þig sídan fundid fá, fagnadar=blídann þig ad sjá, í hærstu prýdi himnum á!

## 6. Sálmur.

Lagid: Frelsarinn hvergi flýdi.

Þar um ef þenkja vildi, þá leidstú harmqvælin, hjartad þá hreinu mildi, þugleidi, Jesú miñ! er nú í ángurs pínu,

einlægañ fýsti þig, ad þú í ángri mínu, ofdeigann hresstir mig.

2. Illum þá eptir bída, óvinum kaustu hér, enn spyr med elsku þýda: ad hverjum leitid þér? Jesúm nadverska nádu, nafngreina Júdar þañ; andsvarid þitt er þádu, þú sagdir: eg em hañ.

3. Jeg em, o Jesú gódi! jafnan er syndga mest, þú ert sá þínu blódi, þar fyrir ádreifdest; eg er, sem eilíf gædi, af þér svo hljota má; þú ert sá, því eg bædi, þøck skyldi' og heidur tjá.

4. Ef þú med krossiñ kémur, kýs eg þá, Jesú miñ! eitt þad, sem øllu fremur, útheimtir vilji þiñ, ad eg þá eptir bídi, ønd mín svo fagni þér, eins og vid ángurs strídi, albúinn tókstu hjer.

5. Þarf eg ej þá ad frétta: þú hverjum leitar ad, ástvinur þiñ er þetta; þá sæ eg sannprófad, ad mig vilt líkjast láta, líka svo mæddum þér; þér vil eg þøckuñ játa, þú veitst ad líkna mér.

6. Ef mín þér æskid leita — óvinum sagdir þú — brádt þessum byrjid veita, burtfarar leyfi nú. Forsvar þitt, Jesú! frída, sæ eg svo reyna hjer, sviptir þad sárum qvída, sem búa meñirner.

7. Eng-

7. Engum þú gjørdir glata, sem gaf þér Fadir þiñ; engar mun eg því rata, ófarir, Jesú miñ! fyrst sá Fadiriñ kjæri, féck þér til eignar mig, ein sú mig endurnæri, ástsemin guddómlig.

8. Þad mátti þig ógledja, þá Júdas komandi, sinn Herra svo nam qvedja: sæll vertú, Meistari! fláræðis kossinn fljóti, fylgdi med eiñinn þá, áminning þræll'iñ þrjóti, þína svo hlaut ad fá.

9. Í þínum edla munni, ej fundust svikin nein, svikarans koss þó kuñi, qvalræðis auka mein, mest, sem þú máttir kaña, mín þegar galztú hjer; gagnhreint til Guds og maña, géfdu því hjartad mér.

10. Veraldar vondsku bída, víst þó eg fengi nú, ætt'eg þad ljúfur lída, ljóst sem ad reyndir þú, fals og fláttskap ad reyna, fælist ei huguriñ, ef þitt ástargéd hreina, eg prófa, Jesú minn!

11. Davíd þá svikum sætti, Saul þó ej hrella vañ, eins þú med ástar hætti, áminntir svikarañ; med gódu vondt svo vinna, viltú eg stundi hjer; ad dæmi þínu'og þiña, þad veittu jafnan mér!

12. Vond dæmin varast skyldi, veittu þá, Jesú miñ! betur ad víst eg vildi, vakta

þín heilræðin, enn sá ei sæmdum mínl, svikarinn Júdas hjer, ónáð svo aldrei kunni, óhlýdnin baka mér.

13. Övinir geyst adgánga, grípu þig einñ nú, þig ljetst svo fegiñ fánga; furdanleg mildi sú, laus sámt og lidug bædi, leysti mig qvølum frá, blessunar bestu gædi, bjó mér svo himnum á.

14. Blessunar Herrans blída, bid eg svo jafnan þig, í ástar fadminn frída, framvegis taktú mig, ad í frá elsku þiñi, eckert mig skilji nú, í allri mædu miñi, mín veri huggan sú.

## 7. Sálmur.

Lagid: Lausnarans Lærisveinar.

Utvortis eymdum qvída, ei má eg þetta siñ, þar svoddan þrautir lída, þú nádir, Jesú miñ! upp frá því óviner, fyrr sem þig fángiñ höfdu, sávisir nú ei töfdu, einum ad þjaka þér.

2. Vidstaddir Sveinar vildu, víss ráð þín heyra nú: hvert sverdum hreyfa skyldu? hefdi þá breytnin sú, dregid til dauda víst, ef þinnar ædstu mildi, er best þeim hlífa vildi, hjer notid hefdu sízt.

3. Margur í vissann voda, verst kañ ad hrinda sér, fyrr sem ej fer ad skoda, fásiña mest þad er, mørgum, sem mein-id bjó; varsemd ad víst eg læri, veit mér þvi, Drottiñ kjæri! heimsins á hættum sjó.

4. Náqvæmd svo þeck'eg þína, þack-látur, Jesú miñ! vídkañast veikt mína, vísdómur ædsti þiñ, óvinum féckstú frá, aptrad því øndu miñi, ad hún í geymslu þiñi, óttast ej þurfi þá.

5. Fyrir þitt nafnid fríða, fyrir þó lægt mér, daudans beiskleika bída, bønd og fángelsi hér, rádstafan þessi þín, uppørfan ein þá skyldi, ad mig tilreida vildi, þá best ad þola pín.

6. Brá Pétur búnu sverdi, burt eyra Malchi hjó. Sathan þó svikin herdi, sem hañ í fyrstu bjó, sverd andans ord þitt er, hverju þá helzt ad beita, hugprýdis orku veita, voludum vyrdstú mér.

7. Ej Pétur eptirbída, andsvari þínu vañ, honum í hug óþýda, helzt því nú reidin brann; heiptar-géd mýkja má, strax ef ad stillist brædi, stundum þó qvikna nædi; þess skyld'eg gjarnan gá.

8. Brádlyndi mitt hid mesta, mest bid eg, Jesú! þitt, ljúflyndid líknar-besta, láti nú verda qvitt, þánglyndis þrota

miñ, þverlyndis brjótsku líka, þollyndis gjæfdin ríka, burtdrífi sérhvert sinn.

9. Sitt slídra sverd, án tafa, Símóni býdur þú; margir í muñi hafa, meinlegu sverdin nú, sem eiñig særa víst; eg treysti umsjá þiñi, aptra því túngu miñi, ad mæli' hún svikin sízt.

10. Sitt slídra sverdid nádi, syndugum móti lýd, þiñ Fadir — þess eg gádi — þá megnust qvala hríd, dreif á þig, Drottiñ miñ! hlaut eg þá farsæld frída, frid mót samvitsku qvída, fridleiddur út og inn.

11. Víst í vanmætti þínum, vyrdist þad eiñig mér, almættid sóma sínum, sízt nádi leyna hjer, Malchum þá gatstú grædt, eud mín svo ad því gjæti, ad nú í dýrdar sæti, mín særdú meinin bætt.

12. Ástvinum elsku þína, eins vel og birtir þú, vægd hinum vildir sýna, vottud er hlífdin sú, sveinum þá hlífdir hjer, Malchum læknadir líka; lífernis hegdun slíka, lát mig nú lær'af þér!

13. Þó minnar vondsku vegna, víst haf'eg forþénad, ad brædi heiskjan megna, bærist mér nú í stad; qvalaña kaleik þú, drackst hjer, miñ Drottiñ gódi! dapur í eymda flódi; lof fái líknin sú!

14. Pína svo þæga mildi, því bid eg, Jesú miñ! þér einum þócknast vildi, þiñ nádar bikariñ, áskenkja mæddum mér, ad mig sá endurnæri, og mér þá blessun færi, sem aldrej sídan þver.

## 8. Sálmur.

Lagid: Taladi Jesús tíma þann.

Gott ef ad launa gædin trú, gédjast þér, Jesú mildi! umbunist gott med íllu nú, aptur þig módga vildi.

2. Syndugum greida gódvild hjer, Gud miñ! þú jafnan tjáir, þó verstu tídum vanþacker, hjá vondum sídan fáir.

3. Dvyrdta mjøg í sérhvert siñ, svo trú'eg náqvæmd þína, er Júdum vildir, Jesú miñ! jafnan þó villtum sýna.

4. Af rausnarlegri rædu þín, rétt má þad undirstanda, þá byrjad hafdir þúnga pín, þeirra í millum handa.

5. Sem til ræníngja — sagdir þú — sókfud þér út ad gánga, allir med vopnum erud nú, albúnir mig ad fánga.

6. Qvadstú þeim hafa kénnt og lýst, kláru med ordi þínu, í musterinu medan sizt, mættirdú svoddan pínu.

7. J

7. I musterinu opt og þrátt, ordin þín létstú hljóma, hefdu þeir svoddant heyra mátt, himnesku leyndardóma.

8. Ad þeir, miñ Jesú! ecki þar, ofkundu kéñing þína, ej heñi þrátt til ydkunar, uppvakti sálu mína.

9. Hef eg þó tîdum merkja mátt, miskunar hljóminn sæta, hvar med þú laungum hrópar hátt: hefd'eg nú þess ad gjæta.

10. I húsi þínu'og helgidóur', helzt trú'eg nálægd þína, hvar med þénara þiña hljóm'; þá frædir ondu mína.

11. Heilrædin birta þessir þín, þau mér nú stunda bæri, vandi þeir rád og verkin sín, viltú eg svoddan læri.

12. Blindt má ej Júda beiskju þel, bleckja því ondu mína, gudrækni sem ej vyrdtu vel, vid sendibodu þína.

13. Fæ eg þér aldrej fullþackad, fyrir þitt ordid hreina, blessunar gædum býtir þad, vol þo eg mætti reyna.

14. Þín var sú nád og mildin mest, margskyns ad þoldir þínu, af heñi þáda huggun best, hitt'eg í ordi þínu.

15. O Herra! géf þiñ anda mér, eg þad svo heyra nædi, ad af því fær'eg ætíd hjer, ávoxt í þolinmædi,

16. Aptur til Júda einig má, athuga ræðu þína: að væri tími þeirra þá, þú náðir gloggt að sýna.

17. Sú þeirra tíð þá talin var, tókstu nú eymdir líða; eins er og tíminn ángistar, eptir sem má eg bída.

18. Er eg þá viss að enginn mér, afrekar hel að vinna, fyrir þá tíð, sem ætlað er, uppháf til rauna minna.

19. Forsjónar Guð þig mæddur mann, má svo í raunum kalla, á jörð titlingur enginn kann, án þíns leyfis að falla.

20. Huggunar tími þegar þinn, þúnganum léttir meina, eik snýst í fognuð ángistin, áður sem hlaut eg reyna.

21. Um myrkra — einig mæltir þú — makt við óvini stríða, uppfylld að skriftin yrði nú, ættirðu svoddan líða.

22. Myrkra hofdinginn mig vill hjá, og mína sálu deyða; myrkranna verstu valdi frá, vyrdstu mig, Drottinn! leiða.

23. Ritníngin svo sem uppfylld er, allskyns þá reyndir pínu, hlýtur og fyllast hún á mér, hverskyns í holdi mínu.

24. O Jesú! ljós og lífgjöf mín, lát mig þó jafnan hugga: leiðast mun eg í ljós til þín, loksins úr dauðans skugga.

## 9. Sálmur.

Lagid: Þá Lærisveinarnir sáu Þar.

Sañordañ Gud mér sýnir þú, sjálfañ þig, Jesú mildi! alvitska þín, svo ætla'eg nú, eiñig framkoma vildi; ástmeñ forláta þínir þig, þó í harmqvælum mundu; því strax ad stundu, hirdtu þeir mest um sjálfa sig, svikin þá yfir dundu.

2. Jeg veit þín ordin, Jesú miñ! jafnan í skordum standa, hreſsist nú þar vid hugurinn, hverskyns í neyd og vanda; þó allt forgánga fái hjer, forgánga þau aldreigi — svo merkjast megi — láttú þau jafnan lýsa mér, lífsins á hættum vegi!

3. Hefdu sveinarnir heitid þér, hraustlega fram ad gánga, og þóktust vilja voga sér, í voda'og daudañ stránga; en þig forlétu allir nú, undan svo flýa nádu, þeim helzt þig hrjádu, medan í raunum mæddist þú, Meistara síns ej gádu.

4. Sáttmálans ork þá eittsiñ var, í makt Philisteaña, Israels flúdu fylkíngar; fæ eg nú gloggt ad saña; flóttameñ urdu þínir þá, þú, Sáttmáls orkin frída! féckst fángiñ bída, af þeirra dæmi merkja má, mér kunn'ej betur lida.

5. Medlætis stund þá hitt'eg hjer, holdsins skammsýnin veika, innbyrlar tídum sjálfri sér, sizt mun'eg kunn'ad skeika; en sem mótlætid adgustar, eginlegt megnid fljóta, vill hrørnun hljóta, efalaust verd því adstodar, ædri og meiri njóta.

6. Hjá engum hana eg þó finn, utan þér, Jesú mildi! heyptu því sjálfur metnad minn, mig þó hann bleckja vildi; láttú svo jafnan merkja mig, mér viljir adstod þína, í sorgum sýna, mig ef eg reidi mest á þig, minn fær hugþóttinn dvína.

7. Ungur mann frá þér flýa réd, þá fángin varst til þinn; úngdóms bernsk-unnar athæfed, olli gáleysi mínu, ad þér svo tídum flúd'eg frá, og fylgdi heimsins kjæti, í eptirlæti; úng-gjædis blinda brjótsku þá, þín úngdóms hlýdnin bæti!

8. Skyldastir vóru þinir þér, þjónkun i nandum veita, alla þó fýsti'ad forda sér; fleirstir nú þannig breyta: þeir, sem einn ádur bénti best, þá tídum fyrst sér leyna, ef hjorg skal beina. O Jesú! þína miskun mest, mest þjádur fæ eg reyna.

9. Dvinum þinir flúdu frá, fárinu sig ad verja; svoleidis dvína sorgir, þá, Sathan vill á mig herja; ad hans umfly'eg hreckja sid, hann svo mig aldrej vinni, þó

tálld tviñl, honum í mót svo leggdú lid;
Lausnari! sálu minni.

10. En ef þér, Drottiñ! einum lítst,
armædu skul'eg reyna, hvergi fiñst hjer
þad hælid víst, helzt sem mér kunni
ad leyna; einúngis flý eg þá til þín, þad
séu mín úrrædi, þó meinin mædi, eg veit
þú, hjártans heillin mín! hyrtir mig,
eck'í brædi.

11. Einn þar vínpressu áttir þú, ad
troda, Jesú gódi! eiñ varstú-skiliñ eptir
nú, allskyns í rauna flódi; eingétiñ Fød-
urs ertú Son, einkum ef nádar leita,
mér vægd ad veita, ein er mín trú og
eflaus von, eins manir jafnan breyta.

12. Á himni og jørdu hvad sem er,
hrósun gudlega færi, um tíma'og eilífd
einum þér, Endurlausnariñ kjæri! fyrir
þad allskyns ónædi, af moñum vardstú
bída, samt qvøl og qvída, í Gethsemane
grasgardi, Gud miñ! er féckstú lída.

## 10. Sálmur.

Lagid: Til Hannas húsa Herrann Krist.

Þó Engla túngum audnadest, øllum
þjódum ad tala best, o Jesú! ást-
samlegi, út-málad fengju ei, sem ber,

innan borgar hvad mætti þér, á kold-
um qvala-degi.

2. Helgasti lífsins hertoginn! blautstú
ád vísu þetta sinn, óvina bondin bida;
til Hannas sídan hraktist þú, hann sig ó-
vægann birti nú, forsmán þar fékkstú líde;

3. Ej vard þó tofin ærid laung, enn
var þér búin mæda straung, þá fékkstú
þad og reyna, ad bundinn varstú barinn
fram, beint inn í holl til Kaipham,
hvild svo ej hrepptir neina.

4. Stadfastginn hjer ej stad eg finn,
styrki mig, Jesú! kraptur þinn, helzt þó eg
hrakning bídi, ad mædu sporin mín hjer
oll, mættu loksins í dýrdar holl, liggja,
þá linnir strídi.

5. Ars Kénnimann þá ædstur var, illur
Kaiphas, svo til bar, qvalirnar komstú
lída; Kénnimannsskap nú þeck eg þinn, þýd-
asti Jesú! fullkominn, því má eg blessun
un bída.

6. Best ef eg skoda, bundinn þú, burt
til Kaiphams leiddist nú; reiknast sú mild-
in mesta, blessadann sjerstú binda þig,
bandingjann auma fyrir mig, bond
hein ej nádu bresta.

7. Bundinn var eg vid Bodord þín,
band þá og einninn skylda mín, áskilin

verk ad vanda, ætla'eg þó brest'ad øllu mig, einúngis best vid sjálfann þig, í hollri hlýdni standa.

8. Forskuldad hafd'eg fyrir því, fjøtradur vítis qvalir í, frá þér eg særast skyldi, burttók nú svoddan bøl og pín, biturleg, Jesú! qvølin þín, bøndunum frekt sem fylgdi.

9. Þó sorga bøndin særi mig, synd mín ad, Drottinn! fell á þig, hitt'eg þá huggun blída, fyrst qvala bøndin þoldir þú, þarf eg ej daudann óttast nú, né í hans bøndum bída.

10. Ad skriptastólnum eg þá fer, o! hvílik nádin veitist mér, nádþyrstum nád svo reyna, ad heiløg nádar-bøndin þín, hjartans ánaudar bøndin mín, uppleysir þá alleina.

11. Fyrir þín handa-fjøtrin hørd, fæ eg, minn Drottinn! hjer á jørd, í allri mædu minni, hendur rétta' í himininn, hvadan mér kémur blessanin, af mjúkri miskun þinni.

12. Í þinna barna bindini, bid eg, Jesú, minn Lausnari! bindi mig bønd þín besta, mitt lífsins band þá losnad er, líkhama'og ønd, sem nádi hjer, saman um sinn ad festa.

13. Yfir og gégnum grýttann veg, Sydínga vondíſkan herfileg, hrakti þig, Herrann blídi! í nætur-myrkri meſtu þá, margskonar bøl þig lagdiſt á, Fødurſins ljóminn frídi!

14. Ej þó mér finniſt gatan greid, gégnum mótlæti, ſorg og neyd, einkum því ætt'eg hlýda, framvegis þeña feril þinn, frómleg'ad gánga, Jéſú minn! med þér ſvo mætt'eg lída.

15. Hreyſtina géfur hjáſtod þín, huggan er líka þeſsi mín, ad hédan ſæ ég halda, í heimkynni fagurt himnum á, heimſins torveldu ſtigum frá, frelſtur um aldir alda.

16. Réttlátur hlautſtú ranſak hjer, ránglátum þo til frelſis mér, þolā, miñ Drottinn dýri! ej mun þá fyrir ángurs pín, eptir grenſlaſt um brotin mín, þinn hjartans Fadir hýri.

17. Fyrir þad høgg á fagra kinn, féckſtú ad lyktum, Jéſú minn! kiñroda' ej qvíd'eg neinum, frá daudans pínu dreginn þá, Dómſtóli þínum verd ég hjá; von mín er á þér einum!

## 11. Sálmur.

Lagid: Gudspjalls Historian gétur.

O Jesú hjartahreini, huggan og traustid mitt! vægd svo eg vid þad reyni, vend'eg í skjólid þitt, játandi misgjörd mína, mödgar þig jafnan sú, dæmid má svoddan sýna, sem hana birtir nú.

2. Pétur — sem vita vildi, vjelrædis afdrifin — eñ nú þér eptirfylgdi, álengdar, Jesú minn! ad Biskups salnum breida, bákeld þar qveiktañ sá; ljet hañ sig þar iñ leida, loganum settist hjá.

3. Þénarar, þernur, líka; þrælar í greindum rann, med ákéfd illskuríka, optlega spurdu hann: hvert sveinn þiñ sá ej værí? sinjadi Pétur því, þrísvar, og þó med særi; þyckudu harma ský.

4. Af kjærleik' eptirfylgdi, álengdar Postuliñ, ógjæfan ein þó vildi, afleida þetta siñ; girnist eg gott ad stunda, Gud miñ! svo líki þér, ill kañ — sem gloggt eg grunda — girnd mín ad hreifa sér.

5. Péturs þá hrösun harda, hugleid' eg aumur mann, samvitskan sorgum marda, sár þad ej dylja kañ, optsiñis ad eg líka, ógjæfiñ sandur þiñ! brúkad hef' breytni slíka, bert vid þig, Jesú miñ!

6. Þá kann eg þér afneita, ef þínum vilja hjer, ej stunda'eg eptir breyta, enn þó hañ birtist mér, von er, ad villtum Pétri, verd'eg þá, Jesú miñ! álitiñ engu betri, ej sídur vangjætinn.

7. Pétur qvadst þig ej þeckja, þjádur í Biskups rañ; ej ljet sig ádur bleckja, eiñ þegar játa vañ: þú værir Guds Son gódi; gjarnan svo hendir mig, sveymand'í sorga flódi, sízt ber eg keñsl'á þig.

8. Sañleikans sízt nú gádi, sañsærdur Postuliñ, sannordañ sem þig nádi, sañprófa, Jesú miñ! Sañleik af hjarta hreinu, helzt bæri tala nú; sannast þó allt ad einu, opt gleymist dygdin sú.

9. Pétur þó mædan mesta, mest þjádi líf og önd, útgaungu fór ad fresta, féll svo í meinin vönd; mér kañ og mein ad búa, meinsemdin hættuleg, byrj'eg ej brádt ad snúa, beinañ á lífsins veg.

10. Ein hrasan eptirfylgdi, annari Pétri hjá; mig nádi, Gud! þín mildi! máttú þad eiñig sjá, úr eiñi sok í adra, eins næ eg falla hjer, illskufull eiturnadra, ej vægir syndin mér.

11. Pétur af ótta einum, adþreyngdur falla vañ, umspeñtur mjog svo mein-

um, miñ Gud! þig affór hañ; en nú má ej það dylja, afnejtað fæ eg þér, opt með áſettum vilja; illt gjörir ſvoddan mér.

12. En þú, ſem girniſt eigi, að nockurr fortapeſt, o Drottiñ áſtúdlegi! eymd miñi vægdú beſt, af ſjálfs míns eginn mætti, orka'eg að falla hjer, en bið, með áſtar hætti, að þú mig viðreiſer.

13. Preñslags perſónur þjáðu, þiñ fróma Læriſvein, þær honúm þriſvar nádu, þúngt baka ſálar meiñ; óſannañ eið aflagði, einkum ſvo hrellði þig. Við ſvoddan vondſku bragði, verndâ þú, Drottinn! mig.

14. Prennslags óvinir þjaka, þúnglega ſálu mín: freiſtarañ veit eg vaka, með vjela-brögdiñ ſín, opt mér í háſka að hrinda; heimuriñ nálgar ſig; holdið í ſaurinn ſynda, ſækir að fella mig.

15. Eg ſtend í ſtríði hörðu, ſtyðjí mig kraptur þinn, hjer meðan hrekſt á jörðu, helzt bið eg, Jéſú minn! í þá eg ætl'að ſockvâ, armæðu koſiñ hjer, freiſtinga djúpſins dockva, Drottinn! bjargaðú mér!

## 12. Sálmur.

Lagid: Pétur þar sat í sal.

Allir þó mættu menn, med hjarta'og sinni, hærsta lof syngja senn, svo aldrej linni.

2. Fullþackad fengju sizt, frída Guds mildi, né henni hjer svo lýst, sem hæfa skyldi.

3. Hvad muñ eg mègna þá, miñn Jesú kjæri! um svoddan segja'og tjá, svo sem mér bæri.

4. Verd eg þó vanfær mest, viljañ ad sýna, af mér því útheimtest, ást fyrir þína.

5. O! hvad sú ástin hreiñ, ást mañа betri, allskonar mýkti meiñ, hjá mæddum Pétri.

6. Svo snart hañ þrisvar þér, þverneitad hafdi, umvenda honum hjer, hún vid ej tafdi.

7. Veikstú þér vid — sem má, votta nád þína — leitst til hans þýdur þá, þig naudir pína.

8. Heyrt hafdi hana-gal, hann þá tvøfalda, medan í svika-sal, sig nádi halda.

9. Hugleiddi hann þá best, hvad fyrrum tjádir, útgéck því utan frest, á þínar nádir.

10. J sínu hjarta hann, hrelldur úr máta, bljúgur svo byrja vann, beiskleg'ad gráta.

11. Svoleidis finna'og fá, fáráđur kunni, miskun þér mætum hjá, miskunar brunni.

12. Neyd þó hann nædi'og pín, nú mikil henda, meiri var mildi þín, mæddum ad benda.

13. Svo leitar kryggd þín trú, tapadra sauda, syndarans, sizt vilt þú, sárlegann dauda.

14. Heldur ad víst sér vid, vendt grátandi, fyrrdrýgdra synda sid, sífeldt hatandi.

15. Best medal ord þitt er — eg má því trúa — med hverju mørgum hjerregnardu'ad snúa.

16. Hentugast mér því mun, med tilsjón þinni, ord þitt og advørun, ef grunda kynni.

17. A lífsins gøtu greidt, frá grandi og pínum, mig fá þau mæddann leidt, med krapti sínum.

18. Med:

18. Medkénna má eg nú, mér — þó ej vildi — opt gleymast ord þín trú, o Jesú mildi!

19. Eins Pétur ecki vann, ord þitt ad geyma, þúnglega þér svo hann, þvi nádi gleyma.

20. Allteins frá einum þér, eg kan hjer snúa, og sídan sjálfum mér, sálar-tjón búa.

21. Maklegast mundi þvi; mig þá ej vildi, nálægjast naudum í, nád þín og mildi.

22. En svo sem ord þín mér, aug-ljóst þad greina, øllum þú audsýner, ástsemi hreina.

23. Og nú þín mildin mest, mér vill þad sýna, einkum þú adhyllest, aumíngja þína.

24. Vona' eg, svo hjarta-hreinn, hirdir þú eigi, míg skilja eptir einn, á hættum vegi.

25. Bendirdu'í miskun mér, mitt er hjálprædi, ef þinna orda hjer, eg minn-ast nædi.

26. Grát'eg þá glæpi mín, gjørst hrindir módi, margprófud mildi þín, minn Jesú gódi!

27. Und-

27. Undan sú mildi má, mjúklega gánga, vinnist mér víkja frá, veginum ránga.

28. Þar fyrir þess eg bið, þá fell mig henda: o Jesú! vík þér við, villtum að benda.

29. Þitt tillit þjáðum mér, það best áviñi, að mínar íllgjørðer, eg gráta kyñi.

30. Sed mína sálu þá, somu með orðum, sem qvendið syndugt hjá, Símóni forðum.

31. Sønn trúar sjónin mín, svo á þér lendi, umsjónar augu þín, að mér nú vendi.

32. Jñ til þess eg mun fá, afleysttir voða, þitt auglit øllum hjá, útvøldum skoða.

33. Svo vertu'í heimi hjer, hjálpariñ dyggur, nærstur í nauðum mér, nær helzt áliggur!

## 13. Sálmur.

Lagið: Fóríngjar Presta fengu.

Yfir íllgjørðum maña, áður og þetta siñ, þolgæði þitt hið saña, þeckt fæ eg, Jesú miñ! þollyndis blómañ blíða, birti þín elskan fríða, brakníng að þoldir þinn.

2. Blessunar dæmid besta, bþdurdu svoddan mér, fyrir foríngjum Presta, fánginn þá stódstú hjer, ljúgvitna'er leita nádu, lygd sem þér móti tjádu, sídur þó samqvæmer.

3. Naboth svo naudir hrelldu, nein þó ej sökin var, þá hann í fárid felldu, fölsk vitni lþginnar; hvatt er í heiml'ad þreja, hvert má þad ödru segja, Guds barn, sem þjáist þar.

4. Lþgiñar fadir fyrst — Fjandinn svo heita má — lþginnar launin gisti, luktur í qvölum sá, lygd hans þó marg-ir mæli, mér vyrdstú, Herrann sæli! best þvi ad forda frá!

5. Vondt ef svo verd eg reyna, ver-aldar ádkastid, mótlæti mest þad eina, máttirdu kannast vid, álygar best um-bera, búinn svo mætt'eg vera, Drottiñ! því legg mér lid!

6. Þegjandi þær svo lída, þú nádir, Jesú miñ! þeim má ej þrautum qvída, þá veitist hugganin, ad minn er allur sómi, ef fyrir þínum dómi, er saklaus álitinn.

7. Tilkomin tal svo hnegja, tvö vitni loksins þá: þau hefdu heyrt þig segja: helzt þremur dögum á, brotid musterid

mæka, mættirðu'og vildir bæta, hond þó ej þar til ljá.

8. Hjartað mitt hjer þó skyldi, heita það musterið, hvert að þú, Herrann mildi! hafðir svo tilbúið, að í því ast-ar sina, eg mætti nálægð þína, ødlast, og fullkomn frið.

9. Jata'eg, minn Jesú blídi! jafnan þó fylgi mér, innvortis eymdar qvídi, opt því eg stunda hjer, með synda sídnum ljóta, svívyrðuleg'að brjóta, húsið svo hentugt þér.

10. Að eg það endurbæti, úrrædin bresta mig, því bið eg þess að gjæti, þín náðin guddómlig, og síðan'best það byggi, bót svo á hvornun þyggi, mildann sem móðgar þig.

11. Opt er mín óskin sama, eins vel í þetta sinn, mysteri míns líkhama, minn Jesú! kraptur þinn, einkum á efsta degi, uppbyggi, svo það megi, birtast með sóma sinn.

12. Í því musteri mesta, með hond-um sízt er byggt, en þó með blómann besta, búið svo tignarligt, hýst mér þá hnossið hreina, hja þér um aldir reyna, þitt gæðsku gédið tryggt.

13. Full-

13. Fullur med fals og prettt, Forkíngimn Presta nú, Gud miñ! þig grant ad frétti: Guds Son hvert værir þú: dárlega djarft taladi, Drottins nafn vanbrúkadi; tilkom þín játníng trú.

14. Mest kann sú meinum létta, mín er þá hugganin, Son Guds og sælan rétta, sæll ertú, Jesú minn! hvers nafn eg heidra vildi, hjálpi mér svo þín mildi, gæt'eg þad sérhvert sinn.

15. Kaiphas reyf sín klædi, qvaldi svo heiptin þá; nád þín og blessan bædi, bid eg mér standi hjá, svo mínu hjarta' ei hlísi, heldur þad sundurrýsi, ydrandi mest sem má.

16. Kaiphas lyngum leyna lekkíns ej mátti nú, þar hann svo gloggt nam greina: gudlastad hefdir þú, dauda sekann þig sogdu, sem þá dóminn á-logdu; lífgar mig lægíng sú.

17. Guds Son, minn bródir blídi! bróderni kýs eg þitt, Gudi svo gjarnan hlýdi, géf nú ad hjartad mitt, gudhrædslu geyma kynni, Guds nád svo ætíd finni, sál mín af syndum qvitt.

14. Sálm:

## 14. Sálmur.

Lagid: Eptir þann dóm, sem allra fyrst.

Minnist eg þín, sem mótmæli, mestu þoldir í qvølinni, af lýd syndugra — ljóst eg finn — leidstú, Jesú! þau harmqvælin.

2. Mig þó ad hrella mætti nú, mótlætis raun ad hittir þú, þar sem eg veit í þúngri pín, þjádistú fyrir brotin mín.

3. Aptur gled eg mig æ þar vid, allskonar leidstú mótlætid, ad sekt mín øll og syndirnar, svoleidis yrdu forlíktar.

4. Um nætur tíma þrjótum hjá, þénurum satstú bundinn hjá, medhøndlun verstu mættir þú, mér er sem hana lít eg nú.

5. Þú háblessada heimsins ljós, hjartans yndæli og nádar-rós! o! hverssu mín hjer mæddu þig, myrkranna verkin herfilig!

6. Fyrir þau hafd'eg forþénad, fordæmdra myrkan pínustad, á ljóssins veg svo leiddir mig, láng-nættis meinin qvoldu þig.

7. Ásjónu þína hræktu hjer, hardlyndir vondsku þjælarner, heiptugri slóu hendi þig, héldu þér fast, svo leystir mig.

8. Þolinmódlega því leidst þú, þitt væri saurgad andlit nú, af sálu minnî saurgun hjer, svo þú í burtu hreinsader.

9. Af nádar munnî þínum, þá, þinn skríd eg nádarfundinn á, nádþyrstum viltú nú ej mér, nádugur spýta þar fyrer.

10. Fyrir mig høggin þoldir þú, þyrmir og líka nádin sú, þolleysi mínu, þá eg finn, þrautir ónáda, Jesú minn!

11. Furdanlegt var, ad føstum þér, fengu nú halda meñirner, almætti hvers þó ecki dvín, ollu vidheldur maktin þín.

12. Best mun þér halda bænin trú; bænar ord mín svo heyrir þú, med bæn og trú ad binda þig, þid eg þú jafnan styrkir mig!

13. Ásjonu þá, sem Englarnir, á himnum skoda dýrdlegir, huldi, minn Jesú! heiptar lid, hrópsyrdum mjøg þar bætti vid.

14. Ásjána hulin þá var þín, þeckjanleg fyrir brotin mín, af blygd og ángri bjúgum hjer, bæri því gánga jafnan mér.

15. Blygdunarlaus eg brýt svo þrátt, bodordin þín á margann hátt, eck'er mér hulin hefndin sú, hjer fyrir ætt' eg lída nú.

16. Nú þar eg dyl ej misverk mín, mér bid eg veiti nádin þín, helzt, sem mér lofad hefir þú, hylin þau mætti verda nú.
17. Láttú svo aldrej hulid hjer, hjálpariñ gódi! fyrir mér, þitt nádar auglitnaudum í; nú vil eg jafnan treysta því.
18. Þó ad mér hreyti hardsnúin, hádi og spotti veroldin, ej kañ mig stórum ángra þad, eg hef' lángt verra forþénad.
19. Æ skal því fyrir minnstu mér, mein þó eg svoddan lídi hjer; vild'eg, minn Jesú! þenkja'um þig, þá leidstú spottid fyrir mig.
20. Hjer þó mig kési heimuriñ, hefji mig lokķins kraptur þiñ, allt yfir þad, sem ángrar nú; ønd mína gledji voninn sú!

## 15. Sálmur.

Lagid: Mjog árla uppi vóru.

Hvalrædis kroptug pína, framdi þig, Jesú miñ! þau vil eg sjá og sýna, saññprófud harmqvælin, féckstú ej njóta náda, um nætur-tíma þañ, hreckvísra heiptin bráda, hardt þig útleika vann.
2. Eins var þá upprañ dagur, armædan hriggilig, bót svo ej beid þinn hagur, burtleiddu'í Rádid þig; Kéñi-

mieñ kynja villtir, qvøldu med spurníngum, og sídan fólsku fylltir, færdu til Pilatum.

3. Etid þá upprennandi, yfir mig ljósid skín, í ljúfu líknar standi, losi þig endin mín, blessunar ljóminñ bjarti, best sem mér lýsir eñ, ad má ej myrkra svarti, mig skada foríngenn.

4. Arla dags upp þá standa, nuusjá þín leysir mér, ætt'eg svo einum vanda, æruna, Gud minñ! þér, þig einúng þar um bidja, þú vildir líf og önd, med þiñi styrkja'og stydja, stodugri nádar hönd.

5. Viktuga velgjord þína, veit eg þá, Jesú miñ! ad eñ fær á mig skína, árdegis ljómi þiñ; árla þó undan lídi, ad eg svo gjæti þín, og þér med þóckum hlýdi, þó væri skylda mín.

6. Akafir eins sem vóru, íllgjarnir Júdar mest, þá med stiffiñi stóru, strax héldu rádid verst; o Jesú allrar mildi! ástunda géfdú mér, kristiñdóms verk ad vildi, vanda, svo líki þér.

7. J rádid ógudlegra, ej komi sálin mín, hitt er hlutskiptid fegra, hald'eg mér æ til þín; ej lát mig flock þañ fylla, frekt þjáir saklausañ; svoddan sambandid illa, sárt þig nú mæda vann.

8. Arla þó eymdin stríða, á þig svo félli nú, hugarins hepti qvída, huggunar líknin trú; mest þegar mædan grandar, miñíngin gledilig, Fodursins hægri handar, hresstí, miñ Jesú! þig.

9. Engin telst unan þægri, enn sjá þig, Jesú miñ! vid hønd þíns Fodurs hægri, harmqvælum fránuñiñ; árla í eilífdeñi, eg mun svo líta þig, tilhúgsan —tár þó reñi— tídt kañ sú gledja mig.

10. Arla þú mættir meinum; mínar þá syndir barst, ad frá ránglátum einum, til añars hrakiñ varst; þó féckstú þanninn lída, þjáníngar, Jesú miñ! ad skyld'eg ecki bída, eilífañ hrakníngiñ.

11. Þess máttir þú svo gjalda, þá fordum rekiñ var, Adam í ánaüd kalda, úr víst Paradísar; eg þó hans arfinn mætti, armædu spórin þín, gánga med hýrum hætti, helzt væri skylda mín.

12. Ebldu mig æ svo kyñi, athuga skyldu þá, eg svo í mædu miñi, mætti þad eiñig sjá, hvèrsu þín hjálpin fríða, handleidir jafnan mig, þyrft'eg ej þá svo qvída, þó feti rauna stig.

13. Ef þess má eiñig gjæta, ánaudum vildir þú, árla svo morgum mæta, mig gledur vonin sú: árla þá eg skal

gánga, upp fyrir dóminn þinn, hvilld mun eg feginn fánga, fluttur í himininn.

14. Þá nád svo þeckja vildi, þess bid eg, Drottinn kjær! ad þinnar ædstu mildi, uppreñi ljóminn skjær, yfir mér, aumum mann, á hverri morgun=tíd, heill sú af himna ranni, huggi mig fyrr og síd.

## 16. Sálmur.

Lagid: Júdas í girndar grádi.

Allt upphaf illann enda, einninn svo hljóta kann, hlaut nú í háskad venda, hvers þó ej gjæta vann; Júdas, í þrautir þá, Son Guds! þig selja nádi, samvitsku böl hann þjádi, þá dæmdann þig nú sá.

2. Prestana fór ad finna, fá vill þeim aptur nú, gjald, sem hann gjordi vinna, Gud minn! ad seldist þú, þann fyrir silf=ur-sjód; ódáda verkid eina, illt náin hann sitt þá greina, ad sveik hann saklaust blód.

3. Eins gjör'eg, Drottinn! illa, ein=um þér víst á mót, ad mig lætt einninn villa, ógæfu brögdin fljót, seldann ad svík=ja þig, vid heims hégómann versta, hjártad þá stunda'eg festa, svíkjandi sjálfann mig.

4. Af hjarta eg svo vildi, optar þad mætt'ej ské; en þín eilífa mildi, aumkt

mitt breiskl ynde, svo ef med svoddan slag, samvitsku sær'eg mina, samt fyrir gædsku þína, álit minn eymdar hag!

5. Uppruna girndin eina, ein brugg-ar svikin mér, mér vill sú tídum meina, meinlaust ad hlýda þér, gjøranleg girnd-in verst, af hen̄i út nami spretta, ein̄ kan̄tú, Jesú! þetta, mein þó ad mýkja best.

6. Svikarin̄ — sízt þó gádi — sælun̄-ar missti hnoss; hópurin̄ heill svo tjádi: hvad kém̄ slíkt vid oss?, sjá mátt'um sjálf-an̄ þig! man̄a svo hjálp ej hreppti, hugg-un elliftri sleppti, fremur hvad sýndi sig.

7. Margir þó mættu lída, mótlætis þjáningar, bætt fá ej bøl né qvída, ber til ad hefdingjar, líkt svara þessum þá, vinskap á vorum halda, verda svo hinir gjalda, sem þenktu'ej þar vid sjó.

8. Ydruvíst'er ad reyna, ástar gjed, Jesú! þitt, þar þín hugsvalan hreina, hjartad svo nærir mitt, sorgin þó særi mig, ad lin̄ir øllum módi, æ tíd, þá Herr-an̄ gódi! framkém eg fyrir þig.

9. Audmjúkur á þig treysta, eg vil þá, Jesú min̄! lát mig í hørmum hreysta, huggunar Anda þin̄, þess svo eg gæti gád, fánýtt fulltingi man̄a, þó fá'eg sízt ad kan̄a, ertú mitt ædsta rád.

10. Afdrifin eg þá vildi, athuga svik-ſtrans, ógnarleg eptirfylgdi, ógæfa breytni hans, frá sér þá fleygja vañ, gjaldinu' í Guds hús frída, géck burt— med sárañ qvída— því nærst sig hengdi hann.

11. Júdas þvi hjer svo hreppti, herfileg gjöldin sín, ad hañ því eina sleppti, ydrandi'ad leita þín, med von og traustri trú; sárlega hañ syndga nádi, en samt þess lítid gádi, ad mjög varst mildur þú.

12. Sekt þó eg safni tídum, sañlega þér á mót, med hjartans harmi strídum, hjálp' mér ad viñ'á bót, í vissri von og trú, af nád og elsku þiñi, en sízt forþénun minni, mér líkna munir þú.

13. Þig Júdas þeckja kuñi, Þþdasti Jesú minn! af hjarta, hønd og munni, hrelldum svo gódvikiñ, hañ því ad heyrdi' og sá, ej vañst þeim nádar nejta, nádar sem gjørdu leita, nádugum helzt þér hjá.

14. Svo mætt'eg þeckja þína, práhjedu mildi nú, ad hrekja undu mína, ej munir, Drottiñ! þú, i frá augliti þín', ef trú og ydrun góda, eg kyñi fram ad bjóda, brádt fyrir brotin mín.

15. Adfalla'i fráleitt fiñi, forda mér, Drottiñ! því, svo vægir sálu miñi, sam-

vitsku naudum í, nær sem eg hrasa hjer, yfirgnæfd elsku þinnar, yfir nægd voudsku minnar, hrísi þá helzt á mér.

## 17. Sálmur.

Lagid: Svo sem fyrr sagt er frá.

Allt hvad mig ángrádan, o Jesú! gledja kann, í þinni ángurs pínu, opnar sig gédi mínu.

2. Merkist þar mildin sú, mér sem ad byrtir nú, um akurlendið eina, á medal spádóms greina.

3. Fyrir það gjald, sem greidt, gat Júdam æru sneydt; lærdir innleysa gjørdu, leirkéra-smids þá jørdu.

4. Utlendt folk eptir þad, í Stadnum burtkallad, á strax umgétnu ládi, ærlega greftrun þádi.

5. Lærdóm hjer ljóst eg finn, lít eg þar, Jesú minn! enn mitt ástandid veika, eymdir og saurugleika.

6. Leirinn ej þoltr þá, þúngt ef hann legdist á, brothættur bila nádi, bót svo ej jafnan þádi.

7. Mótlætis þúnginn þver, þá snýst ad hondum mér, breiskleikinn brádt kann valda, bresti líd eg margfalda.

8. Sálin af sorgum þjáð, sízt hefir nockra dáð, freistingum frá sér hrinda, fyrir ónáðun synda.

9. Brotleg svo verdur við, volduga Réttlætið, bót kann ej brádt að finna, brótin svo mætti linna.

10. Liggjandi laungum í, leirveltu synda því, svipt er af sloddan grómi, saklevsis fagru blómi.

11. Breiskleika birtir sin, brothætt-ur líkhaminn, áfoll þó ætti meina, ecki svo þúng að reyna.

12. Hann trú'eg mædi mest, mót-snúinn heilsu-brest, opt hjer um æfi líða, ásamt því hrørnun bída.

13. Grimmast þó greidir hogg, grimd daudans furdu snøgg, leirinn þá hræck-va hlýtur, hjer med til jardar lýtur.

14. Enginn upptelja má, allskonar bresti þá, sem breiskum sárt hjer ama, sálu manns og líkhama.

15. Enginn þá fundist fær, full-hepti raunir þær, aptra þó annars vildi, utan þú, Herrann mildi!

16. Hvad sem því mædir mig, miúkt bid eg, Drottinn! þig: géfdú eg gladur reyni, grædslu vid sloddan meini.

17. Leirinn ef læknast kann, líka þó brotni hann, mjög ferskn med því blódi, manns af líkhama flódi.

18. Blódugi Brúdguminn! betur mun dreirt þinn, bæta þá bresti mína, breiskann mig opt sem pína.

19. Blódtengdir ockar á, ó Drottinn! minnstú þá, sem blóds mig leyst-ir línn, liggjand'í blódi mínu.

20. Blód-und svo bid eg þín, blæd-and'í sárri pín, hjartad mitt hreinsa nædi, hjartans og meinin grædi.

21. Blódsakur þad sé þinn, þér ein-um velkominn, þar hann med þínu blódi, þú keyptir, Jesú gódi!

22. Blódugu brotin mín, blód-lind-in fær svo þín, afmád og öllum trega, afvendad fullkomlega.

23. Hvíldstad, Herra minn! hef'eg svo tilbúinn, framvegis fyrir, þinn, falinn í skauti þínu.

24. Eg vil í annann stad, athuga gjaldid þad, sem Júdas frá sér fleygdi, frek þá hann sorgin beygdi.

25. Adur, sem vitnad var, vóru þad peningar, eins og spádómar inna, einir þrjátíu'ad finna.

26. Præls-

26. Præls-gjøld. það merkja menn, minn varstú Lausnarenn, loks fyrir litilrædi, látinn og keyptur bædi.

27. Prælsmindin þín sú er, þrælnum til heidurs mér, þénand'i þessu lífi, þó ad mér forsmán drífi.

28. Prældóm mig séckstú frá, frelsad eilífum þá, annars sem átt'eg lída, umspenntur sárum qvída.

29. Frelsinr svo fæ eg þinn, frelsíngi, Jesú minn! frelsid, sem fær ej dvína, fyrir blóddropa þína.

30. Hjer medan hjarta-blód, heims á vegferdar stód, í mér kann varmt ad vera, vil eg þinn pris útbera.

## 18. Sálmur.

Lagid: Arla, sem gloggt eg greina vann.

Zíons Kóngurinn ædstur einn, Endurlausnarinn þýdi! af synda lýtum helzt þó hreinn, hordu í mótgángs stríði, innvortis böl, og ytri qvøl, enn meiri hlautstú bída, enn adrir pín, þótt ýrdu sín, øll fyrir brotin líða.

2. Prestarnir árla sýndu sig, sizt þó med lyndid hreina, til Landsdómarans leiddu þig — líkt sem ea nádi greina —

hræsnandi þá, ei þenkt'uppá, í þínghús inn að gánga, Páskann greidt, svo gjætu neytt, girntust ei saurgun fánga.

3. Hörmulegt er að þenkja'um það — þó megi tíðum sanna — að fær svo hræsnin forblindað, fárlega hjörtu manna, að þeirra verk — annars þó merk — aldrei, minn Gud! þér lynda, vyrdist svo mér, að ein sú er, á medal helztu synda.

4. Hreint skapa í mer hjarta, þú, hjartans Elskhuginn gódi! heiti það best í hreinni trú, hreinsað með þínu blódi, einlæga hjer, svo ætíð þér, eg kynni þjónkun veita; einlæg til mín, er ástin þín, eins má eg við þig breyta.

5. Páskalamb mitt eg þekki þig, það kann mér huggun boda, að deyddur fékkst þú, Drottinn! mig, dregið frá öllum voda, elskan svo hrein, við ángurs mein, opnar sig gédi mínu, eins og þá mest, útleikinn verst, úthelltir blódi þínu.

6. A dyr míns hjarta dreifist sá, dreyrri þinn, Jesú mildi! svo mord-englinum mig að slá, megnar ei þó hann vildi; í qvöldverd þín, fær öndin mín, ödlast þau réttu gædi, hold og blod þitt, þá hjartad mitt, hreinsar og lífgar bædi.

7. Frá líkhamlegri fædu hjer, fædu þá, Herrañ blídi! adgreina veit svo ætíd mér, ad hørdum dóm'ej qvídi, andlega sú, fyrst orkar nú, ønd minni sadníng' veita, andlega þá, eg eiñig má, í trúñi hennar neyta.

8. Utgéck Pílatus, og þá mest, ad sokum frétta nádi: illrædis-mann þig aptur verst, Oldúnga mergdin tjádi; ad fólki þú, fráfnérir nú, forbjódir skattliñ gjalda, Kóng Kristum hjer, þig kallader, kynntu þeir søk þrefalda.

9. Illgjarnir menn svo þjádu þig, þúngum af heiptar-módi, og fyrir gædin ypparlig, átoldu, Jesú gódi! förherdíng þá, er fannst þeim hjá, fjærri mér láttú standa, réttkollud nú, þar sýnist sú, synd á mót helgum Anda.

10. Ránglega gjørdu þeir svo þér, þó vid illmeñsku dreifa, eiñ sem ad vildir øllum hjer, ángrádum til þín leyfa, hætt bøl og neyd, þín hjálpin greid, hjá þeim svo bæta kuñi, kraptaverk gód, kéñíngin fród, komu frá hønd og munni.

11. Illrædis madur ætt'eg nú, øllu fremur ad heita, ill þar mín hegdan ein er sú, illa svo mjøg ad breyta, þar fyrir ljót, mín heimsku þót, hefud svo ej

mæta kyñi, allt gott, sem hér, ávañstá mér, útbid eg sálu minni.

12. Uppfylltist nú — þad merkja má — miñ Gud! þitt ordid hreina: af heidíngjunum þýngstu þrá, þú mundir fá ad reyna, á krossins tré, sem illvyrke, upphafiñ, féckstu deya, her Júda sizt, en heidnir víst, hosdu þar yfir segja.

13. Fyrir Pilató fyrst um siñ, féckstú þá eiñ ad standa; einstoddum mér svo frekt eg siñ, fær nú ei bolid granda, áklagan þreñ, sem illir meñ, á mót þér nádu færa, hratt þeim og best, sem vildu verst, voladann mig ákjæra.

14. Frá alotun snúa girnist mér, gædska þín, Jesú mildi! allt hvad mér gafstu, einum þér, aptur eg bjóda skyldi; Konúngiñ má, þig Kristum tjá, kristnum sem vyrda bæri. Lausnari miñ! í sérhvert siñ, svoddan gefdu eg læri!

19. Sálmur.

Lagid: Gud ngar hosdu af hatri fyrst.

Í hverjum stad eg horsi á þig, Herra Jesú! þá fyrir mig, leidstu hjer lánga pín, sálin skoda mætti mín, mestu nádar atlotin þín.

2. Ej var Pýlatí ánægt géd, illra Gydínga kløgun med, móti þér, Drottinn dýr! í þíngbúsid aptur snýr; æ var búinn hrakníngur nýr.

3. Sannleikann vildi heyra hjer, hverju fremur af sjálfum þér, sérdeilis um þad eitt: hvert Júda Konúngs nafnid neytt, nockurntíma finndist þér veitt.

4. Hjer bid eg sálin merki mín, módgud er, Jesú! nádin þín, ad dygda dæminn sá, Pílató sem hittust hjá, harla litid stunda eg á.

5. Litt má eg dylja lostinn þann, ad kasti' og spotti' um náúngann, trúi jeg heldur hradt, þó viti ei hvert sé þad satt, í svoddan villu'eg þrálega datt.

6 O! ad rádfærd'eg ætid mig, o minn Jesú! vid sjálfann þig, í þínu ordi hjer, hvad trúa'og gjøra gott sé mér, gløggt svo fá'eg numid af þér.

7. Ordum Pílatí ansar þú: ad fizt af þessum heimi nú, þín væru tíkis rád, en ad svoddan sannleiks dád, sídur fékk hann vandlega gád.

8. J ordinu'heyr'eg andsvør þín, eptirtektin þó veik sé mín, bæti þín mildin mest,; géf nú svo þeirra gjæt'eg best, ad géti þau í hjartanu fest.

9. Jardneſku rík'ef rédir þú, ræddird' ad þínir mundu nú, þénarar ſtofna ſtríd, ej ſvo værir, elſkan blíd! ofurſeldur Gydínga lýd.

10. Kýs eg ad vera þjóniñ þiñ, þinn blódmerki, Jeſú miñ! fylgjand'í heimi hjer, ſkírnar lofun þægja þér, þá eg veit ꝫ, en hjálpadú mér!

11. Pílatus eñ þó mætti meſt, merkja þín ord og ſvörin beſt, adſpyr þig aptur nú: hvert ſamt ad Kóngur kéñdiſt þú? Kriſte! þín var játanin ſú.

12. Játad hafdir þú, Jeſú miñ! jardneſka ríkis umdæmin, hefdirdu'ej hugſad á, um ædri ſtjórnar efnin há, átti'hañ ſpyrja vandlega þá.

13. Naudſyn er meſt ad þeckja þig, þú hefir líka, Drottiñ! mig, frædt um þín ríkisrád, Kongs embætti og nýa nád, nú er ſéckſtú mannkyni tjád.

14. Lauſnari minn! eg þacka þér, þeñañ lærdóm ad gafſtú mér, helzt er þá huggan mín, nú eg merki nádin þín, í nádarríki daglega ſkín.

15. Réttlæti, frid og fognudiñ, í fridarins anda, Jeſú miñ! þad ríki birt'eg beit, med þinu ordi, ſem nú ſjeſt, og Sakramentum nóglega feſt.

16. Medølin nádar þessi þín, þú hefir leyst ad sálin mín, odlist í nádum nú, gled'i nar;dum géfur sú, gœdska þín og miskunin trú.

17. Því þó mig særi sorgin flest, samhljoda sin eg ordid best, ad þig svo þjádu hjer, allra þyngstu ánauder, ædst þó hlýddi Kóngstignin þér.

18. Á þinn dyrdar=stól upphafinn, ertú ad lyktum, Jesú minn! frá allskyns eymd og pín, Kongstign helg og háleit þín, í himmariki jáfnlega skín.

19. Í maktar ríki þínu þú, þaninn vidbeldur øllu nú, eckert ad umbreytist, úr því, sem þú settir fyrst, svoddan er þín dásemdar list.

20. Viku svo fyrir veldi þín, volæd id mesta, hrigd og pín, sem ádur þjádu þig, svoddan gledja mætti mig, mædu þó eg gángi nú stig.

21. Hverr af sanleiknum ætíd er — enn framar þú svo talader — rødd þína rækti sá; meir enn Pilatus mundi'ad gá, mætt'eg vyrda kénningu þá.

22. Sannleiknum géf því sin'eg mest, sannleiks rødd þín mig frædir best, sanna eg svoddan þá, Sathan, heimur og syndin hjá, Sathans ríki kémst eg svo frá.

23. Osk mín og trú í sérhvert sinn, sé því einúngis, Jesú minn! ad loks þá lífid dvín, hefjist eg frá hrigd og pín, í himnaríkis sögnud til þín.

20. Sálmur.

Lagid: Pilatus hafdi prófad nú.

Vondir menn, Jesú! víst á þér, vondsku nægd birtu sína, í verki og ordi vondskan ber, vid þig ej nádi dvína, einkum svo illa nú, óvina grimdin sú, saklausan þjádu þig; þau fékkstu hriggilig, gjøld fyrir glæpi mína.

2. Sem nú Pilatus sá og fann, sakleysi þitt hid mesta, út til Gydínga geng- ur hann, gjora vill tilraun besta; segir þeim sídan frá, sok fiñdi hann þér ej hjá; þeir æptu þar á mót, þar til med svørin fljot, áklogun eldu versta.

3. Gjorvallt þó sekum mýi mér, mig stórum áklagandi, Lausnarinn Jesú! lofgjørd þér, líf mitt og sálin vandi, affsøkun eg þá fiñ, ad hlautstú þetta fiñ, áklogun þola þá, þú hlýddir saklaus á, beiskt svo mér bøl ej grandi.

4. Vid sárri klogun þagdir þú; þegjandi rádid besta, þó var í tíma þognin

sú, það bær'i hug að festa; þrýtur sú
meitin mig, megi nú henda sig, áreitt
sé orðum með, óstillta geðslageð, er vill
mig ei þá bresta.

5. Ophölinmæðis orðin flest, eg þar
til brúka náði, undir krossinum, mig þá
mest, mótlæti stundum þjáði; en þú varst
þegjandi, þjáður í qvölinni, lastyrðum
mestu með, mikt fyrir gáleysed; þess eg
nú gjörla gádi.

6. Tem því, ó Jesú! kóngur mín, svo
kall eg það eina, að eilíf náðar atlot þín,
eg síðan mætti reyna; óþarfa mælgi
mest, meglið, sem tidkadest, blótsyrði
og brixlin mér, bið eg svo forláter, græð-
ari minna meina!

7. Undrar Pílatus, að ei nú, ansa
þín gæðskan vildi; við mér þó stundum
þegir þú, það mig ei furða skyldi. Kan-
verska qvinnan réð, kann slíkt mótlæted,
svar þó um síðir hlaut, sára linandi
þraut; svo þeck'eg þína mildi.

8. Lærdóminn Júdar ljetu þinn, last-
mælli þannin bíða, af Galilæu'að útkom-
inn, æst hefðir fólk svo víða; kennenda
kappið mest, kendi þá öllum verst, þína
svo þyggja náð, þín fyrir heilnæm ráð,
fáryrðin fékstú líða.

9. Spámañs embætti þér svo þitt, þócknadist upp ad fylla; hugleidi svoddan hjartad mitt, hendi mig ej sú villa: afræk'eg orpid nú, ádur, sem kēñdir þú, heldur í hverjum stad, hreinlega birtist þad, láttú mig ljúft adstilla.

10. Galílæu þar nefnda nú, nádi Pílatus heyra, frétti ad værir þadan þú, þenkti svo añad meira, Heródí helzt sem þar, høfdingja nafnid bar, mælt er þig meinlausañ, miñ Gud! þá sendi hann, baud þig svo burt ad keyra.

11. Til hans óvinir hrøktu þig, høfdu ej braut svo lánga, mótlætis eñ og mædu stig, mættirdú, Jesú! gánga; hreidur þó hafi sér, himinsins fuglarner, son mañsins sízt nam fá, svølun né hægdir, þá, helzt nádi hrigdin stánga.

12. Huggun er víst þó heimurinn, hrjái mig ýmsa vega, hefir hañ vid þig, Herra miñ! høndlad svo íllmannlega, hans makt þó hefji sig, hrekur ej lengra mig, eñ þínum fótum ad, óhættum gridastad, þar hrind'eg hørdum trega.

13. Þótt í qvøliñi þegdir þú, þódlyndis ædstur blómi! veit eg svo þegja viltú'ej nú, vid mínum sorgar-hljómi; Jesú! þín kēñíng klár, kjæti mig síd og

ár, medalgángari miñ! mig leid í fögnud þinn. Sé þér dýrd, æra og sómi!

## 21. Sálmur.

Lagid: Þegar Heródes Herrann sá.

Mañleg náttúra mjög er blind, mískun afrækir þýna, o Jesú! frí af allri synd, öllum þó nædir skína, guddóms elskuñar geislum med, gistand'i fári nauda, ad deyrum dauda, svo þitt má undra gædsku géd, glatadra þó til sauda.

2. Þú mína sekt og syndir barst, sálar uñustiñ þjádi! þá til Herodem hrákiñ varst, og hañ þig spotta nádi; fyrst gladdist refur þessi þá, þig med ásjónu hvíta, hann loks nam líta, heyrt hafdi margt þér hermt í frá, hvad þó ej vildi nýta.

3. Meinti hann nú á margann veg, mundirdú teiknin sýna; dásemdar verkin dýrdarleg, Drottiñ! um æfi mína, öll hef'eg sídur athugad, eñ ætti þó ad vera, og best tilbera, á medal hverra þitt er þad, þú kañt mig hólpiñ géra.

4. Forvitnis-gjarn ad fleirstu þig, frétta Heródes nádi, en þín hátignin hásoflig, honum ej svörin tjádi; forsmádañ hvítu fati nú, fyrir því nam hañ skrýda,

þig, Herrañ þýda! svo til Pilatum send-
ist þú, sætti það meñ óblida.

5. Umgengni þín svo ætíd var, óllk-
ust þeirra maña, gálaust, sem hafa gaung-
urnar, gjört medal høfdíngjaña, róg og
bakmælgi' ad brúka þá, bestu kañ vinnum
spilla, sú adferd illa, fótsporum þínum
fylgja má, framferdi gott ad hylla.

6. Fíbldleg Heródis forvitnin, frekt
þig nú mæda vildi; upplífgar, Jesú!
anda miñ, ástúdleg Drottins mildi, ad sjá
og heyra sjálfañ þig, Son Guds! í ordi
þínu, sem sviptir pínu, gésur sú nádin
guddómlig, gédi og hjarta mínu.

7. Hjer fæ eg sjá um holdgun þín, og
híngad-fædíng' saña: kraptaverk, lær-
dóm, qvøl og pín, kjærleik til annra
maña, dýrsta upprísu daudum frá, í dýrd-
ar ljómañ hreina, uppstigníng eina, og
dóms tilkomu daginn, þá, dýrd þinni
má ej leyna.

8. Fæ eg nú heyra: Fadir þiñ, fáráð-
um mér svo uñi, ad þig í dauda, Soniñ
þiñ, sjálfur útgéfa kuñi, svo fyri trúna
frelstur eg, fortapast eigi skyldi, og mér
þá mildi, anda þíns nád og ypparleg, upp-
frædíng kjósa vildi.

9. Eitt

9. Eitt þad, miñ Jesú! ætla'eg hjer, athæfi mitt hid versta, ad óvarlega opt med ser, ord þitt og kénning besta, forþénad hef svo fyrir þad, framar ej ansa vildi, þin módgud mildi, minnst svo eg fái merkja, þad, mest nú eg læra skyldi.

10. Alíttú þó í miskun mig, mig svo ad endurnæri, ord þin og svorin ástúdlig, og mér þá blessun færi, sem mig ej þrjóta nædi nú, nú géf mér þau svo vyrdá, og helzt um hirda, ad gásan megi mýkja sú, mótlætis þúngañ styrda.

11. Veit eg ad sina vild á þér, víst sáu menn óhreina, Frelsari minn! þá féckstú hjer, fyrirlitning ad reyna, o! ad þú sætir aptur best, á mér svo nádar fina, velþócknun þina, ad þinnar leit'eg æru mest, alla lífdaga mína.

12. Þegar Heródi þanninn hjá, þú hlautst hvítklæddur standa, klárann saklevsis kyrtil þá, keyptir þú mér til handa; hvít þá líkblæan hylur mig, hylji mitt grómid versta, Guds mildin mesta, svo eg á himnum sjái þig; sé þad mín huggan besta.

## 22. Sálmur.

Lagid: Frá Heróde þá Kristur kom.

Alikt og skip í ólgu-sjó, aptur og fram sem bylgjan dró, hördum mættirdú hrakníngum, hrakinn á ný til Pílatum; sakleysi, Jesú! þínu þá, þordi Dómarinn segja frá.

2. Kalla'eg þá víst ad koma réd, klárlega víst þitt sakleysed; yfrid brotlegur eg þó sé, aumur gétinn í syndinne, ef mig syndlausann aktar þú, ond mína gledur nádin sú.

3. Fyrir sakleysi' — ef svo til ber — sárt ad mig hata meñirner, helzt géf ad stundi hjartad mitt, hógværdar dæmi, Jesú! þitt, saklaus af moñum þjádist þú, þolgædid sanna birtir nú.

4. Bundinn til lausnar Barabbam, baud nú Pílatus Júdum fram, ellegar þig í aňañ stad — eptir sidvenju gjördist þad — allir í hljódi einu senn, afsögdu þig, minn Lausnarenn!

5. Jesú! þig stein þañ játa má, Júdar kostudu sér í frá, Barabba lífs sem bádu nú, bana svo lída mættir þú, hyrníngar steinn því ordinn ert, sem um þig Ritníng greinir bert.

6. Fyrir þad varstú forsmádum, feng-
inn til lausnar heidíngjum, er stocka
byrdtu'og steina, þá, stód yfir þeirra
blindnin há, hellubjarg mitt svo heitir
þú, helzt bygg'eg á þér mína trú.

7. Pílatus ádur vissi vel, vondra
Gydínga heiptar þel, og þeirra øfund
olli því, ad hans nú komstú valdid-i,
þeir gátu'ej lídid lærdóm þinn, líferni
hátt og góðverkin.

8. Øfundar manna þyckjan þver, þó
ad hún vilji granda mér, fyrir þad lán,
þín l{e}nin skjær, ljenar mér aumum,
Drottinn kjær! byrgt fá þeir aldrej brunn-
inn þann, blessunar nægd er veita kann.

9. En ef ad vísu verd eg nú, vidlikt
ad reyna og sjálfur þú, ad øfundsjúkra
illskan verst, á mér í verki framqvæm-
ist, þad Herrann ádur þola réd, þrælln-
um og skyldi velkomed.

10. Øfundar neista illann hjer, einn
kjærdú, Drottinn! best hjá mér, svo dygda
blessad dæmid þitt, daglega stundi lífid
mitt; øllum af hjarta vel þú vilt, veit
eg mér þad og einnig skyldt.

11. Húsfrú Pílatí heilrædin, honum
baud nóg í þetta sinn; ráð þín, o Jesú!

rækja ber, rádvilltum þau ad gafstú mér, rádvandra líka rádin best, rád være nú ad stunda mest.

12. Eggjudu Prestar adra nú, óska í daudañ hnepptist þú; í því þiñ kjærleik kéña má, kénnimenn góda hlaut eg þá, lærdómi hverra ljóst eg finn, leidsögu veitti gudræknin.

13. Kappgirni Júda qvaldi þig, koll og háreysti furdanlig, þér voldu krossins þúnga pín, því bid eg nú: ad gjætir mín, aldrej svo kapp eg ydki þá, ødrum til skada'er verda má.

14. Barabbas var þér metinn meir; munu og líka fiñast þeir, allt vyrda nú og eiñiñ sig, øllu fremur eñ sjálfañ þig; frá þeirri villu forda mér, fyrir það bøl, sem leidstú hjer.

15. Uñ mér því, Jesú! elska þig, eins þó veroldin hati mig, aptur, miñ Jesú! ástin þín, umfadmi líf og sálu mín; eilíst þín, Jesú! æra'og dýrd, af engla'og maña túngum skírd!

## 23. Sálmur.

Lagid: Pílatus Herrann hærsta.

Réttlætis blómann blída, birt fæ eg þetta finn, órétt og eiñiñ lída, ertu

það, Jesú minn! blóðuga mynd þá barst'á ný, dreirinn þá af þér dundi, í Dómhúsi Pílati.

2. Með böndum margskyns synda — mig þó að hriggi nú — þig nam eg berann binda, höl svo að reyndir þú, við stólpa einn þá strengdur fast, húðstroku hrepptir megna, holdið í sundur brast.

3. Húðstroku hels í pínu, hafð'eg svo verðskuldað, með synda safni mínu — sízt má eg dylja það — skildirðu mig við þessa þraut, strýktur við stólpa bundinn, strax eg þá friðinn hlaut.

4. Vert' því minn stólpinn sterki, styrkjandi jafnan mig, bætt svo eg hölið merki, bundinn við sjálfan þig, bestu kjærleikans bandi nú, eymd þó eg ætti líða, álíka'og reyndir þú.

5. En fyrst svo feiknarlega, féckstú að þola pín, afleys mig öllum trega, öll fyrir böndin þín, dauðans þá bönd mig hitta hjer, eilífu ástar bandi, eg svo að tengist þér.

6. Framvegis höggin hrjáðu, hardt svo líkhama þinn, dreirauß að dynja náðu, droparnir, Jesú minn! með sáru qveint þoldir þú, þá qvalar þúngu pínu, þig sem að hrelldi nú.

7. Samvitsku svipan þjetta, sálina mædir víst; hird'eg ad þenkja'um þetta, þá mér ad soñu lítst, fyrir synd mína særdist þú, hún var og svipan harda, helzt er þig mæddi nú.

8. Frá hvirfli allt til ilja, opt má því reynast hér, ad synda-sárin vilja, svidagjorn verda mér; svídandi géf ad sárin þín, sár þau og svidann bæti, sem mér þá eykur pín.

9. Mótlætis svipan sára, sárt mig ej hrellir nú, med því ad mildin klára, mæduna léttir sú, veikleika þá sem merkir miñ, hans þar eg hlýt ad kéña; hjálpi mér kraptur þinn!

10. Svo margar benjar barstú, á blessudu'holdi þín, hjer þegar hrakinn varstú, hørd fyrir brotin mín, ad synda' og mædu sárin flest, enn þó mig ángra vildu, øll fá þær læknad best.

11. Svo margt forsvarid frída, fæ eg því himnum á, sem dropar dreirans blída, Drottiñ! þér hrundu frá, eins ôteljandl'um æfi mín, leggur mér líknar-yrdi, ljúfasta mildin þín.

12. Í metaskál Drottins mæta, miñsti blóddropi þiñ, þýngr'er— ef þess má gjæta— eñ þad øll veroldin, íllt hefir

framid alla tid, mest þó eg misgjørt hafi; min er sú huggan blíd.

13. Guds mind þó glatad væri, Gud min! ad hrósa þér, af hug og hjarta bæri, hana því gafstú mér, afmindadañ med øllu þá, af høndum ógudlegra, einn mátti þig nú sjá.

14 Svo sem þá særdur varstú, svoleidis fyrir mig, mótlæti medan barstú, mér aumum vyrdstú þig, svo eymdum þjádann sýna hjer, einkum á dauda-degi, Drottinn! þad veittú mér!

## 24. Sálmur.

Lagid: Allvyrkjar Jesúm eptir þad.

Óbærileg var øll sú pín, allir sem máttu qvída, hefd'ej, minn Jesú! hjálpin þín, hrundid því bøli strída, í mañlegu holdi mañrauner, mønum til góds þá feckstú hjer, mest þó af mønum lída.

2. Strídsmaña hróp og heiptar sid, hlautstú ad vísu reyna, þegar leiddum í þinghúsid, þér sýndu'ej miskun neina, heldur þá hjuggu harda pín, hardleg'ad svipti klædum þín, af þínu holdi hreina.

3. En ad þín hádúng allra mest, alkuñug verda skyldi, allt lid, þá safnad,

æddt flest, ad þér, Lausnarinn mildi!
medan þin guddóms gædskan blíd, glæstu
vegsemdar notin fríd, afreka ollum vildi.

4. Allmjøg þig hrelldu allir hjer,
allt svo mig hugga kyñi, allir misþyrmdu
einum þér, allskyns svo hægd eg finni,
allskonar minkun á þér lá, allfræga misk-
un hlaut eg þá, af ást og elsku þiñi.

5. Purpura kápu klæddist þú, klár
medan dreiriñ flódi, orsok var því, ad
eiñig sú, ádreifdist þinu blódi; klæda-
fald svert'eg þeñañ þiñ, þettá leysirdú,
Jesú miñ! sem mig þá svipti módi.

6. Raudt var ej furda þetta þó, þitt
væri píslar-klædi, mín dreir-raud synd
þér fjálfum bjó, sañlega mest ónædi,
snjóhvítann farfa feck hún þá, Frelsari
miñ! þig lagdist á, oll hvllik ángurs mædi.

7. Fyrst svo í rauñum þjádist þú, þañ
fæ eg skrúdañ bera, bjartur í lambsins
blódi nú, best sem þo hlaut ad vera, í vín-
berja-blódi þegar þiñ, þvodirdú klædnad,
Jesú minn! hjer sem þú hlautst ad géra.

8. Kórónu'af þyrnum kynja fast, keyrd
var ad eñi þinu, undan hverri þá blódid
brast, beiskri med qvalar pinu, sem frá
hofdi ad fótum ert, fær mig af syndum
hreinañ giort, hægir þad hjarta minu.

9. Í húdstrokunni harda pín, harmþrúnginn féckstú lida, hafa samt ej ad høfdi þín, hoggin þá gjørt svo rída, ósært var þad ej heldur hjer, hardlega þyrniþroddarner, létu þér løksins svída.

10. Nádarstól krýndi kransinn hreinn, af kláru gulli settur; krýndur med þyrnum ertú einn, ordinn nádarstóll réttur; þú ef kross-þyrnum krýnir mig, kann eg svo verda fyri þig, hjálprædis huggun mettur.

11. Réttlætis krónu kalla'eg best, krýndirdú sálu mína, rángletis þyrni mergdin mest, medan þig nádi pína; svídandi þyrnum svoddan med, sjá til, Jesú! þitt høfudéd, ej stund'eg opt ad krýna.

12. Reyrstaf í hønd þar hlautstú nú, hjálprædi sálar minnar! blessadur munt' ej brjóta þú, brostinn reyr trúarinnar, viltú ej forsmá verkun þín, veik þó ad reynist trúin mín, nýt eg svo nádar þinnar.

13. Míns líkhams reyr þó bili brádt, beiskju vid daudans kalda, kom þú þá, Jesú! med þinn mátt, og miskun þúsundfalda, fyrir reyr-sprota høgg þín hjer, helzt þá í trúnni vyrdstú mér, hraustlega vid þig halda.

14. Heidnir ad lyktum hrelldu þig, med hædnis lotníng'sinni; blídi Jesú! eg

beygi mig, best fyrir hátign þínt, í hjartans audmýkt ár og síd, óskandi þess, mín huggun blíd, þín aldrej lofgjörd liñi!

## 25. Sálmur.

Lagid: Landsdómarinn þá leiddi.

Öll mega blessun boda, blædandi sárin þín, o Jesú! eg því skoda, eiñiñ þá miklu sýn, eñ fyrir augum mín, þá qvöl af þyrnum mæddur, þar med purpura klæddur, útgéckst med ángurs pín.

2. Pílatus þegar þañíñ, þig nam útleida hjer, sagdi hañ: sjáid mañiñ, saklaus, ad vyrdist mér, vitid sá eflaust er, Gydíngar svo til svara: sañlega skyldi hañ fara, á kross ad þrengja þér.

3. Helzt má eg hrósa þinu, hraustlyndi, Jesú minn! ad svoddan eymd og pínu, er Júda flockuriñ, þér æskti þetta sinn, útstanda einnig vildir, allt svo þú lokfins gyldir, fyrir mig, þræliñ þinn!

4. Avarpar þú mig þanniñ: þýdlega, Drottinn kjær! syndari! sjádú manniñ! sem nú þörmúngar, þær, útstadid allar fær, er þú áttir ad kanna; af því máttu nú sañna, ad mín er mildin skjær.

5. Sjá

5. Sjá! hverſu ſár mín blæda, ſárum ad víſu þér, ſaſt þeirri, ſem mun græda, ſjádú það Guds lamb hjer, ſem heimſins ſyndir ber, ej þínar eptirſkildi, áſt mín, ſem beſt þér vildi, ej gleym þvi aptur mér.

6. Pín, Jeſú! mildin meſta, mér ſkín ad fullu nú, er það mín óſkin beſta, ógleymd ad verdi ſú, af mér ſem æſkir þú, ſvo mætt'eg ſjá og reyna, ſértú mínn Gud alleina, hjálprædl'og huggan trú.

7. Utgaungu eg ſvo þína, athuga, Jeſú mín! eg ſje þig ángrid pína, allur var líkhamin, illa mjøg útleikin, blódid úr benjum hrundi, brjóſtid af þjáníng ſtundi, aumleg var óſjónin.

8. Pín ſvo í mædu míñi, meſt vil eg gæta nú, ſeint þó ad ſorgir liñi, ſé það mín huggan trú; lángt meira þoldir þú, ad líf og øndu mína, ej þjádi ſvoddan pína; mér vægir mildin ſú.

9. Eg vil ſvo aptur þanninn, ávarp mitt ſenda þér: Sonur Guds! ſjádú mañiñ! ſem hafa misgjørder, útleikid illa hjer, þá fyrir þjáníng ſtrída, þú ſem nú máttir lída, ſýndú þvi miſkun mér!

10. Af ſyndſamlegu ſædi, ſjádú þá, Jeſú miñ! veſæll og veikur bædi, víſt er eg tilkomiñ, aumka ſvo þræliñ þiñ! ſjá

hverſu Sathans illa, ſvikrædi kañ mig villa; vert því miñ verndarinn!

11. Sjá! þegar kroſsiñ ſærir, ſýndú þá adſtod mér, ond min beſt af þvi lærir, einum ad treyſta þér, hvad ſem til hrigda ber, ſvo lát mig ſviptañ ylnu, ſjá þig í holdi minu, hérviſt þá endud er.

12. Svo ſem fyrr ſjúkum manni, ſvaradi Drottinn klár, géfdu eg ſvo vel ſanni: ſjed hafir þú min tár, mýkjandi mein og fár, aptrar ſvo ollum módi, ef þú, miñ Jeſú gódt! læknar min ſorga ſár.

13. Eñ féckſtú forſvar reyna, Forſtjóra lýdſins hjá, því baud hañ: þig alleina, þeir feſtu kroſsiñ á; ſvar Júdum féck hañ frá: þig nædir Son Guds ſegja, ſvo ad logmáli deya, maklega mættir þá.

14. Ej vildi ſæra ſína, ſamvitſku Dómariñ, ſvo þig ſaklauſañ ýna, ſem bad nú flockuriñ; mér géfdú ſérhvert ſiñ, hjartans rádvendni hreina, heimis þó eg mætti reyna, ovondud atlotin.

15. Logmálid hardt nam hóta, hoſtugum dauda mér, þó fæ eg þeſs ad njóta, þig kjoru meñirner, dreginn til dauda hjer, Guds barn mig gjora vildi, Guds Son! þin ædſta mildi, Gud minn! eg þacka þér!

## 26. Sálmur.

Lagid: Hjer þá um Guds Son heyrdi.

Dýrdar í bjortum blóma, best kañ eg vyrda mér, o Jesú! allann sóma, einum ad líkjast þér, því má eg þitt svo læra, þolgædi stunda best, mind þína fyrst ad færa, fá'eg þó laungum særa, mig vilji mædan flest.

2. Þig eptir þúngañ trega, í þíng-hús iñkomiñ, áreittu illmañlega, óvinir þetta siñ, þad trú'eg bøl ej bresti, heimt þá Pilatum nú, yfirkom óttiñ versti, ord Júda þar hugfesti, Guds Son ad þekt-ist þú.

3. Hvadan þú værir, vildi, vita Dómariñ þá, engu þín edla mildi, ansadi þar uppá; sinjardu — sagdi'hann — besta, svar nú ad veita mér? veitstú ej valdid mesta, víst kañ mig ecki bresta, ad hegna' og þyrma þér?

4. Dómarans dæmid illa, dirfsku og metnadiñ, ej lát mig aumañ villa, í frá þér, Jesú miñ! abl, fegurd, audur, sómi, eyda svo morgum hjá, dygdaña dýrstu blómi, dramblætis hordu grómi, svoddan ef saurgast má.

5. Hjer

5. Hjer fyrir, Herrañ mildi! hlýt eg svo bidja nú: géfdú eg gjarnan vildi, grunda þau ordin trú, er stolltum hardri hóta, hádúngar neyd og pín, ad svoddan lægíng ljóta, látir mig aldrej hljóta, audmjúk er óskin mín.

6. Sjálfrædis makt þó meta, mjøg nædi Dómariñ, frívíljañ særstir géta, fullkomiñ brúkad siñ; vilja miñ vyrdstu ad beygja, vel svo hañ mætti frá, íllrædis hótum hnegja, hvar til — eg má þad segja — hjálp þína hlýt eg fá.

7. Eins má eg, utan vafa, ætla, miñ Jesú! þig, øll rád og efni hafa, eiñúns ad hrella mig, líka mér lausn ad géfa, loksins frá neyd og pín, þad skal eg aldrej efa, einúngis kañ þad sefa, allskonar meinin mín.

8. Pilatus hjer þá hafdi, hofmódinn brúkad siñ, audmýkt þín ej vid tafdi, ad svara, Jesú miñ! svo siñ eg satt þú rædir: sízt hefd'hañ vald á þér, ef hañ þad ekkí þædi, ofan géfid, svo nædi, bert því ad beita hjer.

9. Hressi mig, Herrañ blídi! huggunar rædan sú, aldrej svo eymdum qvídi, eins þó ad vildu nú, voldugir vid mig beita, valdinu'á ýmsañ hátt, og þar med

eptirleita, eptir vîld sin'ad breyta, vid minn þó veikann mátt.

10. Hár eitt af höfdi mínu, hér eng-in snerta má, ad mér svo auki pínu, utan þín mildin há, mig viljí med því reyna, monum ad leysa slikt, lídur þitt lyndid hreina, líka til hefndar seina, athæfid illskurikt.

11. Ymsar um æfi lánga, eymdir og hörmúngar, víst mega gégnum gánga, Guds rikis erfingjar; hverju helzt med-ur móti, mig viltú reyna hjer, æra þín aldrei þrjóti, eins þó eg líða hljóti, af mönnum meingjörder.

12. Eptir þitt andsvar hreina, aud-mjúkur þetta sin, fyrir þig frid alleina, faladi Dómarin. Júdar, med þánkann þrjóta, því gégndu máli hans: lausn ef þú fengir fljóta, fyrst mund'hann af sér brjóta, kjærleika Keisarans.

13. Hofmód' Pilatí hrinda, hjer kunu svorin þín, nú þó mig náí blinda, náttúru vondskan mín; Jesú! þitt ord-id eina, eflaust þad vina má, ad svodd-an illsku meina, eg fái bót ad reyna: mér veittú miskun þá!

## 27. Sálmur.

Lagid: Pilatus heyrdi hótad var.

Fátt miøg ad vísu finnast kann, fullltreysta skyldi nockurr mann; þér, gódi Jesú! þetta finn, þordi ej vægja Dómarinn.

2. Hofdu Gydingar hotad þvi, helzt ef þú slippir dauda frí, Keisarans reidi hordum hast, hann skyldi mega vidbúast.

3. Heyrdi Pilatus ord þad á, ordlaus af hr-ædslu gjørdist þá, Keisarans reidi qvída vann, qvída þeim olli fávitskan.

4. Þad láttú, Jesú! merkja mig, mér géfdú jafnan óttast þig, elska og vyrda'i heimi hjer, hvernig sem láta mennirner.

5. Þú megnar líf og líka sál, ad leggja'og kasta'i vitis bál; stundlegu gagni geta þeir, gjørvøllu svipt, en ecki meir.

6. Hefnd þinni géfst ej friun frá, frá þeirra valdi losna má, mót þúsund einu ordi þér, ej géta svarad mennirner.

7. Án þins leyfis ej orka nein, aumu qvikindi'ad vinna mein, makt þeirra lóksins med þeim dvín, maktin óbilug stendur þín.

8. Mismun svo háann merkja nú, mér bid eg jafnan veitir þú, flekad svo aldrei fái mig, flárádir menn ad styggja þig.

9. Þeirra hótum ej hlýda ber, hlýda, miñ Jesú! ætti þér, hótanir þinar hitta mig, helzt ef eg, Drottiñ! módga þig.

10. Keñ mér þvi halda kjærleikann, kristnum sem ber vid náúngañ, hvad sem ej lýtur honum ad, hjá mér ej finni nockurn stad.

11. Ut varstú leiddur añad siñ, ásetst Pilatus Dómstóliñ, Gydíugum svo þig sýna vañ, sjáid Kóng ydar! mælti hañ.

12. Beisklyndi Júda birti sig, blessadañ! mjøg ad hrelldu þig, og af Pilató æskja nú, á krossi deya mættir þú.

13. Skal eg nú keyra krossiñ á, Konúng ydar? hañ mælti þá; þeir qvádu: engiñ þetta siñ, þad væri nema Keissariñ.

14. Forfedur þeirra svoddañ sid, sérlega hofdu kañast vid, Konúng ad vildu fegnir fá, forsmádu Drottiñ himnum á.

15. Þó Júdar svo med heimsku hót, hardlega stædu þar á mót, Kóng þig ej vádu kalla sinn, kross-pindann þjádu, Jesú minn!

16. Vidtoku nú ad veita þér, veit þú eg lært svo sem ber, Jesúm minn Kóng ef játa þig, jafnvel í dauda hressir mig.

17. Því Djöfli frá og daudans pín, dýrst hefir Konúngs maktin þín — forektud enn þó yrdi nú — ønd mína keypt og frelsad nú.

18. Umlidna hefir æfi tíd, yfir mér haldist stjórnin blíd, þér, mínum Kóngi, þacka ber, þínar svo frægu velgjørder.

19. En þó mig hendti villan verst, vyrdt'eg ej þína stjórnun best; allt fyrir nád og anda þinn, eg vil þad bæta, Jesú minn!

20. Akafir þó ad ætli sér, óvinir þá ad stjórna mér, audsþna lát i øllu mig, engann Kóng haf'eg nema þig.

21. Vert' mér þá, Jesú! velkomiñ, vértú svo jafnan Kóngur minn, Kóngshollin þín sé hjartad mitt; hjálp' mér ad stund'á ríkid þitt!

22. Sem mínum Kóngi hef'eg hier, hollustu svarid einum þér, þegnskyldu minnar því eg vil, þér, medan lifi, gjøra skil.

23. Adstodi þar til aumann mig, o Jesú! nád þín guddómlig! Himins og jardar Kóngur klár, klíngi þitt lof um eilíf ár!

## 28. Sálmur.

Lagid: Pilatus sá ad sönnu þar.

Rettvísra ill og áleitin, einföldum móti svikrædin, útvísa dæmin optarst sé, adkomin sinu takmarke; Lausnarin gódi! víst þad var, vildu svo jafnan Gydingar, framkoma þvi, er fengu nú, forsmán og daudan hrepptir þú.

2. Upphlaup Pilatus óttast þá, engu til vegar koma má, fullnægja vildi fólki nú, flecklaus ad deya mættir þú; þig svo til dauda dæma vann, Drottinn minn gódi! saklausan; samvitsku dóm ej þeckti þar, þá sem ad hönum búin var.

3. Þrælsótti var, sem þanninn réd, þyngia Pilati gédslaged, ad þord'hann ecki þetta sin, þig ad fríkénna, Jesú min! Sonarleg hrædsla son þad er, sannlega muntú kjósa þér, Græðari min! þvi géfdu best, gjarna sú hjá mér auglýsest!

4. Fyri rád fram þó rast bert, reikna nú sumir einkisverdt, þeir fá ej heldur bannin sjed, þad nú Pilatum henda réd. Þu nema rádir — þad eg finn — þrjóta svo rádin, Jesú min! án þinna ráda ræd eg verst, rádtú mér þvi ad öllu best.

5. Pílatus þenkti það nú eitt, þóknun fólkinu að sýna greidt; af íllum þankum íllt er skéð, í ordi og verki framkomed. Þeckirdu, Jesú! þánka-ran, þér fyrir engin dyljast kann; stjórna því hjarta mínu mest, ad mætti jafnan hugsa best.

6. Hardan dóm féckstú heyra nú, hardt svo mig ecki dæmidir þú, hjer þó ad dæmi heimur mig, hærsta Dómaran veit eg þig, þin nádar dómur, Drottinn kjær! dómunum mana hrundid fær, undir þin dóm eg fegin flý, frá heimsins dómum þánka sný.

7. Dómstól samvitsku dregin á, dæm eg mín brotin ecki fá, Drottin min! sem nú dæmdur varst, og doms úrskurdin vel umbarst; kén mér dagleg að dæma mig, Dómaran svo eg finni þig, dæmandi mig í dýrd hjá þér, dóm fyri þan, sem leidstú hjer.

8. Dárlega breytti Dómarin, dæmdur þá varstú, Jesú min! hendur í vatni hreinsa fer, hjer næzt vid Júda þanin tjer: vid Réttláts blód mig reikna frí, raunar um ydur sjáid því! ansa þeir: blód hans yfir oss sé, ásamt vor bornin komande!

9. Pílatus hendur þá nam þvo, þenkti umflýa mætti svo, víst honum búin vandrædi, verst fyrir dómsins atqvædi.

Hønd þó eg sáurgi'og hjartad mitt, hjartans útruña blódid þitt, í trúar høndum tekid best, trú'eg þau hreinsi lýtin verst.

10. Pílatus Júdum vøtta vañ: værí med øllu saklaus hañ, af þínu blódi þetta siñ; þó vil eg greina: Jesú miñ! mun eg ej vera vid þad frí, verst hefir synd mín ollad því, dreiri þiñ mjøg ad dundi nú, daudans og pínu hrepptir þú.

11. Samt bid eg dreiri saklaus þiñ, sem djarfur Júda flockurinn, æskti nú kæmi yfir sig, yfir ad komi, Jesú! mig, ej þó til hefndar eins og þeim, ølku framar í þessum heim, þiñ svo eg mætti fridiñ fá, fegnudiñ sídar himnum á.

## 29. Sálmur.

Lagid: Seldi Pílatus saklausann.

Kristnum til æru qvøl og pín, kaustú, miñ Jesú! lída, er vilja dæmin ydka þín, um æfi sín, eymdir þó mættu bída.

2. Fyrri var greint: ad gjørdu þér, Gydíngar frá sér hrinda, Dómarañ líka — ljóst þad er — ad lyktum hjer, leiddu í netid synda.

3. Barabbas því nú frelsi fann, frelsast þó sídur ætti, en keyrdur varst'í

qvol og bann, ad krossfestann, klárt þig nú skoda mætti.

4. Vel þó ad sumum vegni hjer, velþócknun eptir sinni, en adra bol og eymdin sker; eg óska mér, ofbjóda slíkt ej kynni.

5. Ætt'eg ad vísu þeckja þá, þitt sannleiks ordid hreina: heimurinn fögnud hljóta má, þar hinir fá, harmqvæli nóg ad reyna.

6 Frá heims upphafi ej nam einn, ejns miklar raunir lída, sem þú, unnustinn elsku-hreinn! og ecki neinn, ödlast svo vegsemd frída.

7. O Jesú! géf mér anda þinn, íhuga vel svo nædi, lífs-barna kjör, í ljóma sinn, þá leidast inn, lúin af krossins mædi.

8. Manngreinar álit verst nú var, ad velja'hinn dygda snauda, en útskúfa þér í eymdirnar, sem ecki par, unnid hafdir til dauda.

9. Allmargir finnast hjer í heim', hneigdir til líkra synda, gángast þeir fyrir gjaldi'og seim, er gédjast þeim, gjarnan voludum hrinda.

10. Ad mig ej hitti heimskan sú, hneigdú mig þess ad gæta, manngreinar álits utan nú, sem æskir þú, aumíngjans raunir bæta.

11. Manngreinar álít ej það var, ást þín og mildin fríða, áleit mig þañ, sem ánauð bar, þá allskonar, andstreymi vildir líða.

12. Ej fannst það gott mér aumum hjá, er þig svo hræra kyñi, í mínar eymdir ofan gá, því yndi frá, í dýrð sem hafðir hinni.

13. Einasta miskun þá var þín, þessum með dýrðar hætti, sárþjáða leysti sálu mín, frá sorg og pín, svo að hún lífa mætti.

14. Útvaliñ kallast eg svo því, að þér, miñ Jesú góði! útskúfað var nú eymdir í, svo ej komst frí, ángurs frá hörðum móði.

15. Vert að Gyðínga beiðni þó, Barabbás qvittun þáði, áfelli Dómsins allt þér bjó, sem ENDDE ró, og nú saklausann þjáði.

16. Veit mér að biðja um það eitt, er þér má, Drottinn! líka, en aldrei girnast af því neitt, sem er þér leidt; álíttú beiðni slíka!

17. Viljugum leiðstú vondsku her, viljugann þig að pína; vilji þiñ, Jesú! verði hjer, þó vilji mér, vondir ofsnuð sýna.

18. O!

18. Ó! ad í hverskyns eymd og pín, önd mín svo taka vildi, ollu, sem værí þocknan þín, og þorfin mín; þad veittú, Jesú mildi!

19. Ad vilja mínum veit eg þá, viltú eg sídan fái, hugsvolun þýda himnum á, þar heita má, heill sú eg jafnan þrái.

20. Allt hvad, minn Jesú! átti þér, ávinna sorgir mestu, tilefni gott í hormum hjer, svo heiti mér, huggunar allra bestu.

21. Þig innanborgar þjádi pín; þar fyrir, Drottinn gódi! efli mig nád og elska þín, ad ondin mín, ædst lof þér jafnan bjódi!

## 30. Sálmur.

Lagid: Stridsmenn Krist ur kápu færdu.

Utan búda Israels manna, offurs dýrin brennd eg finn; utan borgar óvinanna, offrad var þér, Jesú minn! utan þetta offrid sanna, ej medtekur Fadir þinn.

2. Eptir Dómsins úrskurd versta, óvinanna mergdin-sú, sem kjori þig á krossinn festa, kom ad flýta þessu nú, stóra qvol og strídu mesta, af strídsmonnunum hrepptir þú.

3. Þig

3. Þig í klædi þín sent fǽra, þá purpura slíkin var, af þínu brisin holdi skjæra, helzt þá svídu benjarnar, þar um ecki þó sig kjæra, þótt svo lídir hørmúngar.

4. Synda slík ad sizt nú mædi, sálu mína, Drottinn kjær! betra heñi bjóstú klædi, brotin mín, sem hulid fær, þitt og mitt er þad nú bædi, því svo frá mér enginn nær.

5. Á herdar þíñar hørdum krossi, krinda nádi flockuriñ, tárin þó ad føgur fossi, fyrst svo þjádu harmqvælin, elsku þíñar blíður blossi, birti nádar ljóma siñ.

6. Illsku-brádir íllmañlega, áfram sídan hroktu þig, øll svo hrjádi akla vega, eymd og mædan hriggilig, allskyns nád í øllum trega, aldrej nú ad bresti mig.

7. Þó ad krossins þúngiñ sirídi, þér nú gjørdi sára pín, jeg þad veit, minn Jesú blídi! og ját'ad synda-gjoldin mín — litid mér þó laungum svídi — láu meir á herdum þín.

8. Þegar synda þúngiñ versti, þryckja vill nú, Drottiñ! mér, eg í hug nær aumur festi, allt sem gjørd'eg móti þér, á mér létta ej þá fresti, eymdin sú þig mæddi hjer.

9. Mig á herdum sandiñ sára, sálar ædsti Hirdir miñ! barstú hjer, þá beiskañ tára, bjúgur géckstú ferilinn, mótgángs þegar mesta bára, mæddi þig vid krossburdinn.

10. Sveita mínum blessun blída, baud og líka nádin sú, krossins þegar þúngañ strída, þádir vísi ad bera nú, eg svo hrindi öllum qvída, allskyns mædu léttir þú.

11. Þegar krossi þínum undir, þú hjer mæddist, Drottiñ kjær! Símon þann, er géck um grundir, gripu menn, þá kom svo nær; ófús hann á allar lundir, eptirbera krossinn fær.

12. Hærstur Gud á himnum, fljóta, hjálp í naudum birta ser, þeirrar sömu nú ad njóta, nádin Drottins veitti þér; aldrej mun hann efni þrjota, aumstoddum ad hjálpa mér.

13. Ljóstið, Jesú! líknar-hreina, líka géfi nádin þín, undir-léttir ángurs meina, eg þeim tjá'i naudum sín, er böl af krossins byrdi reyna, byrji þeir ad leita mín.

14. Þó til smánar þéna skyldi, þig ad mæddi krossiñ hjer, þinni ber ad þacka mildi, þad eg fiñ, til heldurs mér, undir honum eg þó vildi, eptirfylgja jafnan þér.

15. Krossins ok ef undir léttir, einka blidur, Jesú minn! og mér hjálpar-hönd svo réttir, hörd þá mædir ángistin, upp mig reisir, eg þó detti, endalausi krapt-ur þinn.

16. Krossins feril þinn ef þrædi, þessa stund eg lifi hjer, eptir svoddan angurs mædi, einninn má eg fylgja þér, í þau hærstu himna gædi; Herrann trúr! þad veittú mér!

## 31. Sálmur.

Lagid: Fólkid, sem Drottni fylgdi út.

Enn bid eg, Jesú! ondin min, áliti nú og sañi: harma-spor gánga blautstú þín, heiman frá borgar-ranni.

2. Veglengdin mjøg þitt mæddi brjóst, mædina sár þín berdtu; vegur, sañleikur, lífid ljóst, Lausnariñ! mér þvi ertu.

3. Fleirstir ad vísu' í for med þér, fylltir af grimdar módi, útgengu medan og svo hjer, úthelltir þínu blódi.

4. Utleiddi þín frá Egyptó, Israel hendin greida; eptirkomendur þeirra þó, þig med krossinn útleida.

5. Utreka ljetst svo einann þig, undir þá krossins ylnu, út svo ej rækir aumann, mig, undan krossskjóli þínu.

6. Við þó að stuggi mínir mér, mig það ej furða skyldi, omudu jafnan þínir þér, það frekt nú heita vildi.

7. Það er mér nærsta nóg, ef finnnaudir þó svoddan reyni, blessaður ertú bróðir miñ, bægjandi hverskyns meini.

8. Fylgdu þér líka frúr og menn, feikna með harmi sárum, þín ógnar qvöl og ángisten, úthellti þeirra tárum.

9. Hefir þeim fallið sorgin sú, sorgþjáðum mest til handa, sannlega værk sidast nú, sjá fengju þig lifanda.

10. Gráti þó hrinda gjerð'um síð, glaðir af návist þiñ, en sú hjálpræðis huggan þýð, hulin var þeim að finnt.

11. Svo með grátendum géfðú fyrst, grát'eg, muñ Jesú blídi! að með fagnendum farsælist, fagnaðar-stund eg bídi.

12. Heilræðin qviñur þáðu'af þér, þig sem nú aumka vildu, að heldur yfir sjálfum sér, og sínum harma skyldu.

13. Nú því sá tími nálgadest, neyð svo að hendum færi, óbyrjum hrósað mundi mest — mæltir þú, Drottinn kjæri! —

14. Í hverjum stad, á hverri tíd, hvad sem eg gjøra vildi, fyrísegd hjer sú hefndin stríd, hjartad mitt vekja skyldi.

15. Orsøk mig brestur ecki nú, er mitt svo gédid hræri, veit eg ad mín er syndin sú, sem mér því gráta bæri.

16. Fyrr mundi verda fyrir þér, frekt þad ef gjøra kynni, kát mín enn syndir telja hjer; treyst'eg svo miskun þinni.

17. Séf mína synd því grát'eg nú, Gud minn! á píslar degi, harmqvæli þín ad herdti sú, huggun svo mættir eigi.

18. Í nádar=djúpid ósk'a'eg þá, øll mín svo tárin fljóti, ad mig því sama sídan frá, svo lunar lind ej þrjóti.

19. Allskonar tár af augum mín, úthellt í sorga flódi, sídar mun hondin Herra þín; þad vona'eg, Jesú gódi!

20. Íttir þú: Júda ósk og þrá, einkum sú verda nædi: ad í harmqvælum hyldu þá, hálsat og fjøllin bædi.

21. Ad mig sú aldrej hitti hjer, harmqvæla pínan stránga, er þeim nú sjálfum auglýst er, yfir þá mundi gánga.

22. Vitjunar tíma mætann minn, mér veittú jafnan þeckja, svo mig ej náí svikarinn, sinni med flærd ad bleckja.

23. Fjøll og hálsar þó fallí'um síd, fyrir almætti þínu, hylji mig best þín høndin fríd, hrindir sú bølt mínu.

24. Upp til fjallaña augum mínu, eg sæ svo jafnan venda, hvadan mér kémur hjálpin þín; haldist þitt lof án enda!

## 32. Sálmur.

Lagid: Greinir Jesús um græna tréd.

Grædarinñ Jesú, Gud og mañ, gædskunñar blessud uppsprettan! af hjartans rót eg þacka þér, þadan sem fljóta velgjørder.

2. Sálin — ad vísu — merkir mín, miskunar blessud hótin þín, þá lífsins orda lausin hrein, leggur þú best vid hennar mein.

3. Vid qviñur rædu þína þú, þessum lyktadir ordum nú: ef græna trjed svo hrjáist hjer, hvers má hid þurra vænta sér?

4. Pad lystilega lífsins trje, lífgunar frjófgun veitande, auglýstu nú og einninn þig, ángistar meinin hriggilig.

5. Dugtum fauft þó ætti hjer, í dauðans bál ad hrinda mér, samvitskan þjáða metur mín, makleg ad væri þvílík pín.

6. Eilifra qvala ógnar bál, svo ecki hremdi mína sál, Guds reidi blossinn brena réd, blessada lífsins græna trjed.

7. Lífsins balsamid beita þá, blessadi Jesú! kom þér frá, gaf þad mér líf og grædi best, gjervöll mín sálar kaunin verst.

8. Svoddan balsam eg segja kañ, sáraflód þitt, er lækna vañ, alla þá krem, sem ádur hjer, eikin forbodna gjördi mér.

9. Lífsins saftin'af sárum þín, svoleidis prófar undin mín; lífsins ávexti þægja þér, þar med plantadu best hjá mer.

10. Ljent medan varir lífsins tíd, lífgi mig svo þín huggan blíd, lífs-raunir þó eg lídi hjer, lífs eilífs von ad sértú mér.

11. Eg í skírn minni blómann bar, blómgunar dádin veittist þar, þér svo iñrættañ þeckir mig, þá dauda-tímiñ nálgar sig.

12. Fyrir því medan hjar'eg hjer, Hjálpariñ gódi! veittú mér, ad njot'eg þiñar náqvæmrar, nádar umhyggju'og blessunar.

13. Ej þó nú ber'eg ávext þañ, eptir sem Drottinn leita vann, upphøggvast svo med øllu hjer, eg hafi tídum bakad mér.

14. Blessadur ef nú bidur þiñ, blessadann Fødur, Jesú minn! enn fá'eg standa'um árid eitt, eflaust mun þér sú bænin veitt.

15. Ur þinu skjóli eg því nú, óska, mér sist ad hrindir þú, sokid í skjólin añars er, allskonar heilla fyrir mér.

16. Vert því mitt saña Cedrus-trje, signadañ skugga berande, á mina vond-sku'og verkin ljót, víst sem ad gjør'eg Drottni mót.

17. Guds reidi-storma geysid mest, grandar mér ej, þá fæ eg best, athvarf skjóli'og skugga þin, skadar mig þar ej nockur pín.

18. Píns verdugleika veglegar, veit eg, minn Jesú! greinirnar, blómfagrar út þá breida sig, brotlegann sá þær hulid mig.

19. Jeg veit ad ecki jafnast kañ, Jónæ graskar vid lundiñ þañ; forsælu má og fiña þar, fyrirkomandi blessunar.

20. Eins þó ad krossiñ mædi mig, mín er sú beidni hjartanlig, vertú þá, Jesú! Vintrjed mitt, veit mér í nauð-um frelsi þitt.

21. Kross og hørmúnga vatn þar-vid, verdur mér eins og hunángid, nær

þitt huggunar heilnæmt vín, hressir örþjáða sálu mín.

22. Beiskt vatn í Mara beiskleikann, brádleg'af trénu missa vann; sæll Jesú! þú ert svoddan tré, sykrandi allskyns mótlæte.

23. Þín gudleg nád svo gjæti mín, gródurset mig í undum þín, blessunar gædin best hjá þér, blómleg á sídan veittu mér!

## 33. Sálmur.

Lagid: Kom loks med krossins byrdi.

Aðtk'eg um æfi mína, ígrunda, Jesú minn! eymd, qvöl og ánaud þína, er leidstú þetta sinn, fyrir mig forlitinn, þá krossins þjáning' strída, þú máttir loksins bída, særdur og sorgbitinn.

2. Mættirdú miklum trega, medan í Hansastad, for þína fullkomlega, fékkstú hjer útendad. Óvinir eptir þad, gall-blandad vín þér veita; vannstú þeim dryck ad neita, er fékkst þar á smackad.

3. Illt þad upphugsad fengu, ádur og líka hjer, grimmir óvinir gengu, Gud minn! ad sýna þér; ej toldu eptir sér,

ómak þo kosta kynni, á qvøl svo herða þinni; hugraun það mætti mér.

4. Dryck þeir nú beiskañ báru, blessudum muñi þín; játa'eg með siñi sáru: svoddan er breytni mín, eñ nú, sem ecki dvín, þar synda beiskju bjóða, brúdguma sínum góða, ej feilar sálin sín.

5. Ohófi medur mínu, margt hef'eg vanbrúkað, svo féck nú sára pínu, svoddan þér afrekad, í køldum qvala-stað, blønduð þá beiskjan stríða, barst þínum, Jesú! fríða, miskunar munni að.

6. O! að eg aumur vildi, akta svo þúnga pín, og þar með eiñiñ fylgdi, ydrunar tárin mín, sem eru svoddan vín, er nú aldrej forsmáir, en víst medtaka náir, gagnprófuð gæðska þín.

7. Jeg bað, miñ Jesú! bjóða, jafnan ef mætti þér, gledinnar víníð góða, géfur þín náðin mér, aptur í heimi hjer, eiñiñ um eilífð lánga, eg mun þá blessun fánga, lífs dvøl þá endud er.

8. Víst má og vel að hyggja, vildir þú, Jesú miñ! ólífjun þá ej þyggja, þér band nú flockurinn, þar nóg í þetta siñ, út-tæmdañ hafdir eigi, ort þér á pínu degi, birlaðann bikarinn.

9. Hjer

9. Hjer þó eg hlytt'ad smacka, hörmúnga beiskju þrátt, dryck má eg dýrstañ þacka, Drottiñ! sem færdu brádt, byrlad á bestañ hátt, svo ef mig sorgir pína, samt prófa'eg gædsku þína, þeirra sem mýkir mátt.

10. Hardt þig á krossiñ keyra, qvalarar, Jesú miñ! hörmulegt var ad heyra, og horfa þetta sinn, á þig svo útleikinn, mordíngja millum tveggja, meñ þig á trénu leggja, fadmiñ svo höndu þiñ.

11. Höggormsins hausiñ ljóta, í hausastad nádir þú, krossþaniñ best ad brjóta, borgadist einniñ nú, óhlýdnin Evu sú, hönd þá ad trénu teygdi, tilkom— því sorgin beygdi—hjálprædis huggan trú.

12. Milldgñ[illegible] mid hjá sveinum, mátti þig heyra'og sjá, fridinn af huga hreinum, hrelldum svo gjördir tjá; í mid varst einiñ þá, fridar Höfdíngiñ fridi! frid birtir aumum lýdi, keyrdur nú krossinn á.

13. Þú, mid-persónan milda! midpláts sem útvalder, er nú min aptur skylda, offr'eg mitt hjarta þér, í midju brjósti mér; böli þó mæt'eg mínu, midt í kross-böli þínu, frid svo eg fiñi hjer.

14. Fáng trúar telst eg breida, teygdsum mót fadmi þín, ef kann mig uppá reida, ad svoddan feiknar pín, bætt hast brotin míu, þad traust og tillit besta, til þín, lát mig ej bresta, iñ til þess æfin dvín.

15. Aptur eg óska vildi, ástríka fadmiñ þíñ, blídleg'af bestu mildi, breidirdu, Jesú míñ! mér nú og sérhvert síñ, svo lífs þá léttir pínu, lend'eg í skauti þínu, leiddur til lífsins inn.

16. Þá mun eg miñast eigi, mótlætis þúngañ á, aflettañ, sem eg segi; svo mun ej krossiñ þjá, þar eg sæ þig ad sjá, í eilífu yndis standi, eiñ Gud þig hátt lofandi; gefdú mér gledi þá!

## 34. Sálmur.

Lagid: Þegar qvalarar krossinn á.

Sañleikañ þó ad segi mér, sem heilög Ritníng tjádi: ad sterk sem daudiñ elskan er, o! miñ Frelsariñ þjádi! oblugri meina'eg yrdi sú, óvinum, sem ad birtir þú, þá qvala þúnginn hrjádi.

2. Medan á krossi mæddann þig, mordíngjar nádu festa, og þér svo pínan ógnarlig, ónádun gjørdi mesta, fridsamann badstú Fødur þinn, foríngiun

nádar, Jesú minn! vid þá ej vægd ad fresta.

3. Sagdi: Fadir! þeim forlát þú, fávísir þar ej gádu, hvad vondt þeir gjøra! vilktu nú, víst þó af lyndi brádu. O! hversu mjøg þín ástin blíd, umfadma vildi'á þeirri tíd, þá, sem ej þar um bádu!

4. Eptir því nú ad elskan þín, út nam sig þañiñ breida, ad þú og líka miñ ist mín, mig vil eg uppá reida, eg þó med syndum saurgi mig, samt er þín nádin hjartanlig, vill hún til lífs mig leida.

5. Ef þú, miñ Gud! mót' illum lýd, útbreidir fadm þiñ góda, og honum viltú ár og síd, eilífa miskun bjóda, veit eg umfadmar elskan þín, ángráda fyrir brotin sín, á medal allra þjóda.

6. Fødur þiñ, Jesú! Fødur miñ, fæ eg nú víst ad greina, faderni gott í sérhvert siñ, svoleidis má eg reyna, þó mig, sem Fadir, hyrt'hañ hjer, hañ trú'eg jafnan birti mér, sitt Fødur-hjartad hreina.

7. Føduriñ badstú fyrir þeim, frekt er þig nádu pína, alla syndara'um allañ heim, í bæn svo luktir þína, allir med glæpa gjørdum hjer, gjørdu, miñ Jesú! einum þér, allskyns ójøfnud sýna.

8. Reykelsi Aaron veifa vann, vard því á navðum stilli, lifendra stod þar lengi hañ, lika svo daudra milli, á millum Guds og mañа hjer, miskunar dádin fylgdi þér, verkandi vægd og hylli.

9. Hjá sönnum Gudi sátt og vægd, svo næ eg best ad fiña, vid svoddan klára fiñis hægd, samvitsku naudir liña; fyrir þiñ dauda, sár og pín, fæ eg, miñ Jesú! njota þín, og líknar orda þiña.

10. Fodur þiñ badstú fyrri med, forordi, Jesú blídi! hjer bad án forords fiñ eg skéd, fyrir svo villtum lýdi; andlegu gædin eg svo má, útvega mínum Drottni hjá, strax þó ej stundleg bidi.

11. Til afsökunar æsktir þú, óvinum þéna skyldi: ad þeirra enginn þeckti nú, þad, sem hañ gjora vildi. Þrátt gjör'eg, Jesú! verr eñ veit, veiti mér samt þín ástin heit, forsvar af mestu mildi.

12. Greidt þó mér jafnan gángi sízt, gódlyndis þægd ad sýna, mig ef ad skyldi mañа víst, mótþróa nægdin pína, ef þína vild'eg þenkja'um nád, þú, sem óvinum féckst nú tjád, helzt mundi heiptin dvína.

13. Andstreymi þúngt og ánaud hjer, eg þó af mönnum lídi, meir hef'eg syndgad móti þér, miskunar Herrann blídi!

þund tíu þúsund held eg hjá, hundrað peníngum verd'ej smá, en þó mér svoddan svídi.

14. Sjálfshroka miñ því sefa þú, svo best forláta kyñi, einhverr þó stygd mér auki nú, áreitni medur sini, hefndina géf eg þañiñ þér, þín svo ej reidin grandi mér, í dóms álÿktun þinni.

15. Mig ef ad krossins mædir pín, má eg, þó svoddan lídi, augunum reña þá til þín, þú, nádar ljómiñ frídi! kramiñ ef lít á krossi þig, qvöl þín og undir hressa mig; dýrd sé þér, Drottiñ blídi!

## 35. Sálmur.

Lagid: Utskrift Pilatus eina lét.

Af öllu því frá upphafi, allir sem rita nádu, um alla heimsins atburdi, einkum þá fregnir tjádu, ángrádum mest, eg ætla best, ef að þad huggun bjódi, sem útvísar, þig eyr-Dirnar, umkríngdu, Jesú gódi!

2. Leysist mér nú ad líta þad, til léttirs gédi mínu, á einu spjald'er uppteiknad, yfirstód hofdi þínu, krossinum á, í brautir þá, þig nádi fyrst ad keyra, ó-

vina

vina líd, þá andstreymid, upp þadan fylgdi meira.

3. Æru-titil, sem nautstu nú, nam þér Pílatus veita: Jesús nadverskur nefndist þú, nýr Kóngur Júda sveita; skriftin sú var, til skyldugrar, skammar Gydíngum verstu, en aumum mér, ætlud af þér, æ til huggunar bestu.

4. Í þremur túngum þanninn skrád, þitt Konúngs nafnid mæta, Hofudprestaña hyggjan brád, hjer kunn'ej vel adgæta, óska því mest, þad umbreytest, eñ þó Pílatus vildi, ad rétt sem hann, nú rita vañ, ryftad ej verda skyldi.

5. Gydíngar þó ej gjætu nú, gjorstlidid æru þína, naudugir máttu þola, þú, þeim hana ljetir sýna; mitt nafnid gott, þó grimd og spott, gálausra vildi kéfja, Drottiñ miñ! hjer, ef þocknast þér, þú kannt mig samt upphefja.

6. Jesús er nádar nafnid þitt, nú vil eg ad því gæta, hrersr þad laungum hjartad mitt, hvad sem mig vildi græta, og sem þad hjer, ad hefdi þér, hverr madur lesa nádi, lífsins bók á, svo merkja má, mitt sé á himna ládi.

7. Mín hjartans kné í hreiñi trú, hjer fæ eg, Drottiñ blídi! í þínu beygja nafni

nú, nád svo eg jafnan bídi; í þvísvo má, eg frelstur fá, fagnadar bestu gædi, og allt, sem hjer, útrétta ber, til orda'og verka bædi.

8. Af Nazareth þig einñ má, álita, Jesú gódi! nefndañ í qvala þýngstu þrá, þín svo mér huggun bjodi, audmýktiñ sú, og elskan trú, ad klæddist holdi mínu, í nefndum stad, því nýt eg ad, nádar í krausti þínu.

9. Staddú því, Jesú minn! hjá mér, med hjartans audmýkt þiñi, afpláni sú, þó haf'eg hjer, hrokast í velgengninni. Hoffraktar síd, mer varna bid, vyrdstú af þýdri lundu, ad sóma-prís, mér verdi vís, valiñ á dauda-stundu.

10. Nazareths þýding birt er best, blómlegañ qvist má greina; blómlegur qvistur baud nú mest, blessunar vökvañ hreina, sem draup af þér, þá drjúgum hjer, dundi þitt blódid frída, mér aumum qvist, svo audnadist, ávoxtinn þar af bída.

11. Kóngur Gydínga klár þó sért, kominn af þeirra blódi, Kóngur Heidíngja eins þú ert, útvaliñ, Jesú gódi! ytst veraldar, til arfleifdar, endimerk

gefa

gefa nádi, Fadirinn þér, og med því mér, miskun eilífa tjádi.

12. Stjórna því, Jesú mildi! mér, med þínum guddóms anda, þér, mínum Kóngi! holla hjer, hlýdni svo kynn'eg vanda, Kóngs maktin þín, sem klárt nú skín, komi mér helzt til góda, konglega þá, þig kominn sjá, kynferdin allra þjóda.

## 36. Sálmur.

Lagid: Stridsmenn þá hofdu krossfest Krist.

Krossfesti Jesú! kalla'eg þín, kross-meinin hryggilig, þeim er nú sáu. Svoddan pín, saklausann hrelldi þig, ángrast og þar vid endin mín, aptur þó gledji sig, af þeirri náð er øllum skín, og þanninn leysti mig.

2. Uppreistann kross þá hofdu hjer, heidnir menn nidur fest, í fjóra hluti, þánkinn hver, þeim kénndi rádid verst, skrúda þínum ad skipta sér, skriftin svo uppfylldest; ad þessu gæta fólkid fer, fær þó ej skynjad best.

3. Upphafinn játa'eg, Jesú minn! frá jørd ad varstú hjer, upp þegar lyptu íllmennin, ásamt med krossi þér; upp til þín, frídi Frelsarinn! fyrir þad ryckt

mér, uppfyllð svo rætist Ritningin, rétt sem þú talader.

4. A medan skiptu illir nú, óvinir klædum þín, helgunar klædum hirdtir þú, hér nædi sálin mín, blessunar gáfan bid eg sú, birt fái gjædin sín, kjærleika, von og trausta trú, til þess ad æfin dvín.

5. Fátækur komstú hjer í heim; hafdirdu, Jesú miñ! upp þadan hverki aud né seim, allskonar mótgángiñ, reyndirdu opt med raunum þeim, ránglega forlitiñ, óvinir þig, af illsku keim, alrændtu þetta sinn.

6. Ef þér, miñ Drottiñ! þad svo líkt, þá vil eg gjarnán hér, fátæktar þúngañ þola víst, þolgjædid veittú mér! allskonar blessan af því hlýtst, eptir ad fylgja þér, hefirdu mørgum þar til þrýst, þeim slíkt ad høndum ber.

7. Ef ad, miñ Jesú! á eg þig, engu skal qvída þá, nógu ríkañ þá reikna'eg mig, raunir þó leggist á; audlegdar hyggjan óþarflig, ej mér svo lendi hjá, hún, þegar daudinn sýnir sig, sálina deyda má.

8. Ad þínum krossi kém eg nú, krossþjádi Lausnariñ! o! hvad mig hrærir eymdin sú, ángist og harmqvælin, hjer

sem ed nakinn þoldir þú, þá prófa'eg, Jesú miñ! med þessu glædi mína trú, miskunar andi þinn.

9. Særdur á trénu hjeckstú hjer, helgasta blódid þitt, útruñid mest af ollum þér, álítur hjartad mitt, samvitsku þoł því asmád er, med eitur-bitid sitt, gétur þad ecki grandad mér, gjorvoll er plágan stytt.

10. Andlega sæ eg eiñiñ sjed, Adam, þá nakinn stód, vid fyrirbodna feigdar-tréd, fylltur af sárum mód, blygd hans og qvol nú bæta réd, blessunar lindin góð, klædist hann fogrum kyrtli med, kominn af heljar slód.

11. Nakinn barst eg í heiminn hjer, huldi mig ecki par, uppvakning sé þó auñum mér, eymd sú eg fordum bar, búningi mjog ef breyta fer, búiñ til fordyldar, helzt mundi þá ej hreyfa sér, hoffraktin klædnadar.

12. Luckan þó blída sýni sig, sízt heñi treysta ber, er hún svo tídum undarlig, optlega vendir sér; í dag núskrýd'eg máské mig, á morgun þó nakiñ er; klædnad eg frídañ kalla þig, kys hañ því, Drottiñ! mér.

13. Nakiñ þá loksins fer eg frá, fallvoltum heimsins rañ, lát mig í trúnni

Þeckja þá, þiñ krossins nakleikañ, nær allt forláta mitt eg má, mér géfdú fyrir hañ, hátldar skrúda himnum á, hverr aldrej fyrnast kann.

## 37. Sálmur.

Lagid: Uppreistum krossi Herrans hjá.

Náqvæm er, Jesú! nádin þín, nád þína, Drottiñ gódur! syndirdu og í sárri pín, sérdeilis þiñi Módur, þá vid þiñ kross hún veina réd, var þar Jóhañes eiñiñ med, af sárum harmi hljodur.

2. Munadarlausa Modur nú, med ségdu harma-qveini, afhendti svo þín elskan trú, elskudum Lærisveini: Sjá þú þar, qvinna! Son þinn er: Sjá, þína Módur! — vid hann tjer — þinn hjálpar munnur hreint.

3. Merktirdú hér ad Módir þín, mjøg réd harmþrúngin vera, mátt' hún ej dylja meinin sín, mest sem nú hlaut ad bera, krossfestañ þig og særdañ sjá, sú var hin mesta qvøl, er þá, hennar nam hjartad skjera.

4. Móses fordum ej mælti par, mest þá hañ hrópa nádi; Samúels Módir svoddan var, samt heñar Drottiñ gádi;

Innvortis hróp þá heyrir mitt, hjálp-akiñ, Jesú! eyra þitt, líkt eins og túng-an tjádi.

5. Lærisvein uñtir þægum þú, þinn hlaut vid krossiñ bida; alla krossbjáda eiñig nú, elskar þín mildin frida; allt vil eg til þess viña hjer, vildirdú einnig bjóda mér, þá hjartans þócknun blída.

6. Mig ef þad bøl nú mætti ské, mun-adarlaus ad heita, qvaliñ á hørdu kross-ins tré, kunnirdú hjálp ad veita, upp-vekja kañtú eiñiñ þá, einhvern, sem bædi vill og má, hrelldum mér hægdar leita.

7. En ef nú fáir fiñast þeir, sárádum lid mér sýna, óvalta kýs eg øllu meir, o Jesú! nágvæmd þína, drjúgast hefir hún dugad mér, drjúgum þegar ad mann-rauner, sært hafa sálu mína.

8. Adhjúkrun veit mér alla því, el-skifrar gædsku þiñar, hverskyns mótlætis hretum í, hérvistar reisu miñar, þá fæ eg reyna, þú ert sá, þér vísar engum burtu frá, med þúnga mædu siñar.

9. Miñar ef þirfti miskunar, mun-adarlaus sá væri, hjarta mitt, túngu og hendurnar, hrærdu svo, Drottiñ kjæri! ad eptir megni minu þá, mætt'eg þeim sama gódvild tjá, eg sem nú af þér læri.

10. Hjer þinni Módur hællð best, hófst þú í naudum veita; ef vid Foreldra mína mest, mund'eg ej þanninn breyta, bætt þann sama brestinn minn, blídi Jesú! þín audsveipnin, og hjartans ástin heita.

11. Sérlega birti sárann nú, søknud þín Módir besta; vorkénna slíkt ad vilsir þú, víst mun ej dæmid bresta; ástvini hér ef missa má, mér veittú loksins himnum á, aptur þá finn'eg flesta.

12. Þegar mig særir syndin hjer, sárum med hjartans qvída, flý eg, minn Gud! ad fótum þér, fá vil þar eirnin bída, líti þá, Jesú! mjúkt til mín, miskunar blessud augu þín, huggun svo hrepp'eg þýda.

13. Svo sem farborda sástu nú, fyrgjandi Módur þína, mín bid eg líka minnist þú, mildur í hátignini, fell mig æ þín fyribón, Fodur þínum á himna trón, helzt þó í mædu minni.

14. Æra, góts, líf og øndin mín, inssfelst svo, Herrann gódi! í elsku'og nádar atlot þín, ángurs svo hrind'eg módi, annast'mig, Drottinn! ár og síd, einkum þá kémur daudans tíd, ønd mín svo lof þitt ljódi.

## 38. Sálmur.

Lagid: Þeir, sem ad Kristi krossi senn.

Þótt nú í heimi allt hvad er, ætti þér hrósun veita, íllrædis manna ílska her, ílla svo nádi breyta, Lausnari miñ! ad lasta þig, leidu med spotti sinu, á krossi fyrir annann mig, umvafinn sárri pínu.

2. Þeir framhjá gengu, gabbid nú, geyst ad þér létu hníga, vist ef Guds Sonur værir þú, vildirdu'af krossi stíga; qvølunum þér ad koma frá, kunni sú maktin hreina, qvaliñar lída kaustú þá, qvøl svo ej þirft'eg reyna.

3. Ædur Kaiphæ þrælar þig, þúngu med spotti hrjádu, þjonar Pilati sýndu sig, sama þá gjøra nádu, allir samtaka urdu nú, ad þér lastmælum hreyta, vid svoddan øllu þagdir þú; þar skyld'eg eptir breyta.

4. Foríngjar gabbid fólsku verst, frekt trú'eg ad þér sveigi, odrum þú hefdir hjálpad mest, hjálpa þér kynnir eigi, blindir svo nádu brixla þér, berlega'um miskun þína, er þeim svo tídum auglýst er, einhver sem mæddi pína.

5. Vondir ef brixla vildu mér, vondsku nægd eptir sinni, eitthvad þá gott eg ætla hjer, útrétta af miskun þinni, eg sinn hjer dæmid elskurikt, ætti því jafnan hlýda, án þess ad gjalda líku líkt, last þó eg fengi bída.

6. Enginn má brixla þér um þad, þótt nú ad ollu leiti, mér fáir aumum miskunnad, makleguг sízt þó heiti; þú mátt, o Jesú! — þad er víst — þinni svo haga mildi, alleina sem þér einum líst, eitt þad mig hugga skyldi.

7. Kénnimenn trúa þóktust þá, þig sjálfann Krist ad vera, krossinum þig ad koma frá, kynnu þeir sjón á bera; en þó mér veitist ecki þad, eg trúi, Jesú gódi! ad þú mig hafir útvegad, einkum med þínu blódi.

8. Þitt fyrir traust og tillit mest, til þíns Födursins blída, blindra óvina brixlin verst, blessadur! féckstú lída, sögdu: treyst hefdir Gudi greidt, Gud þig nú frelsa skyldi, Gud þér ef unna gjordi þett, Guds Son þar heita vildir.

9. Hold mitt og blód — þad helzt eg finn — hrellir svo ondu mína, jeg fæ þad reyna, Jesú minn! jafnan þá sorgir pína,

